Nú uiun jeg minnast lítið eitt á Chicago sjálfa. Hún hefir raörg nöfn, auk sins Indiana-nafns, sem enginn veit með vissu bvað pýðir; bún er kölluð Preríu-borgin mikla, Drottningiu i vestrinu, eða Vatnadrottningin, eða Lysti-gavðastaðurinn, eða Fuglinn Fönix. Líka w37

hún optlega nefnd Uudra-borgin, og er pað sannnefni, pví hún or tákn og undur tíraans; unginn bær heíir vaxið og eflzt hálft eins fijótt, og ekki San Fransiscó. I Chicago var engin byggð í elztu manna rainnum; 1830 bjó par aðeins 100 manna. Langmest óx hún rett fyrir hrunann 1871 og svo síðan. 1880 taldi hún hálfa millión íbúa; nú telur hún 15 eða 1600 púsundir raanna. Er hún lifandi dæmi pess, Jivernig andi framfara-pjóðanna kann að nota tækifærin, pví pað er tvennt, sem veldur pess-ura risavexti: auður landsins og lega staðar-ins. Chicago liggur á miðju mcginlandi Norður-Ameriku við utsuðurenda stórvatnsins Michigan; var skjótt með skurðum greidd skipaleið til hennar að austan bæði til Lárenz-ílóans og New York, og að sunnan til Mexicó-flóans, — pað sem fíjót og vötn náðu ekki til. Auk pess mætast í Chicago 40—50 járnbrautarlínur. Stórvirki borgarbúa eru dæraalaus í veraldar-söguuni. Bruninn mikli 1871 eyddi á einura sólarhring (pví voða-stormur var á) langmesta og bezta parti borgarinnar: sautján púsund 460 húsuni, og par með flestum gersema-byggingum bæjarins; var pað tjóa metið meir en 200 milliónir dollara virði! Og premur árum siðar brann aptur 60 ekra spilda af pessuni bæ, par sem ekki brann áður. En allt potta óumræðilega tjóu hleypti einungis huga, manna i tilsrarandi bál áræðis og hamfara,Á fáum árum rcis pessi Fönix aptur úr öskvt og enn pá fegri og fullkomnari en fyr. J>ykir nú engin borg vera með fegra skipnlagi en híin; er hún af enda og á eintómir húsafer-hyrningar milli fjögurra stræti, en strætin afar-breið og práðbein. Auk hins mikla lu'isa-skrauts og stórmonnskn, er önnur höfuðprýðin lauftrjáa-strætin og lystigarðarnir; er nálega saraföst hringspilda af skemmtigörðum iimhverf-is Ohicagó, pað sem vatnið ekki nær. Nyrðstur og fríðastur er Liticoln Park, pá Humboldt Park, pá Garfield Park, pá Washington Park, og loks Jackson Park syðst, par sem sýningin var haldin, og svo er fjöldi annara minni. Lincoln Park er einn sá fegursti i heimi; er hann meðfram vatninu með tilbúnum hæðum, hólum, smávötnum, skemmtisvölum, gang- og akbrautum og óviðjafnanlegu laufviðarskrauti. J>ar er og dýragarður mikill. þar er mynd af Grant forseta; situr hann á hesti með hatt á höfði og i kuíli — nærri pví peisu! pví myndin er mjög óriddaraleg og meir en hvers-dagsleg. Helztu stórbyggingar borgarinnar eru ráðhúsið, hið svo nefnda Anditorium (liótel og leikhús), kaupmannahöllin (Board of Trade), póstliúsið, Frímúrarahúsið, sumar kirkjurnar o. fl. Alls eru par yfir 500 kirkjur, sem tilheyra30—40 ílokkum. J>ar er fjöldi húsa 12—20 loptuð og 200—300 feta há; eru par ekki liafðir stigar, heldur lyptarar (Elevators), sem hefja menn39

upp eða låta síga niðnr með gufuaíli. Eitt liús er par einna hrcst; pnð er höll Frímúraranna yfir 300 feta há með 20 loptum, enda kostaði pað hálfa fimmtu mill. doll. Eitt hús er par í smíðum, sem verður mcð 3 4 loptum, og 500 feta hátt! Plest oru stórhýsin að grind og máttarviðum gjörð úr stáli og járni og öll pykja [jau afartraust. í einu stórhýsinu lcom jcg í pýzkan klúbb; hann útti herbergi tf. 16. lopti. Var fólkið á strætum niðri likt og mýs eða rottur til að sjá, en á hálfri mínútu fór jeg upp. En pó hregt sé með sliku lagi að komast upp og ofan, parf ekki að ómaka neinri út til að gá að stjörnunni oða til að sækja í ratnsfötu: menn hafa alla hluti við hendina á hverju lopti: vatn, ef krana er snúið, borðsal, ritstofu, póstafgreiðslu og hljóðbera. Nálega hver viðskiptamaður hefir og notar hljóðbera. Liggja præðir peirra eins og pett net um pessa borg og gegnum hvert hús, eins kirkjur, sem aðrar byggingar. Geta peir sem eiga telifóna úr kirkjum, heyrt milur vegar, pegar klerkur-inn ræskir sig eða ber í stólinn, auk heldur orð og söng. Umferð og keppni á strætum cr hvergi í heimi sögð jafnmikil og lier, einkum í miðhluta bœjarins; er eins og allt í upp-námi og menn og skepnur fari hamförum ; fyrir pví verða slys og ófarir par daglegt brauð. J>að er mikill ósiður í Amoriku, hve ókærnir menn etu við gufubrautir. A Eng-40

landi eru ávallt brýr og bogar, par sem oiil braut sker aðra, svo hrer smjügi sinn setta veg, en í Ameriku, og eins innan borga, verða vagnstjórarnir sjálfir að vaka yfir, ef lest kemnr úr einhverri átt, að ekki rekist pær á; verða stundum af pví hroðaleg slys. Staurar standa að vísu á slíkum vegamótum með á-skriptinni: „Gráið að gufulestinni!" (Look out for the train), en hér ber opt bráðan að, einkum pegar sporvagnalestir í borgnm eru á ferð og eimvagn ber pvert að. Um alla Chicago gengur hin mesta mergð slikra vagna, flestir á dragköðlum, sem dregnir eru undir stræt-unum af rafmögnuðum vinduspilum, en vögn-unum krækt í kaðalinn, og liggur rifa eptir hverju stræti. Margt er Yölundar-smíðið nú á dögum. Fara lestir pessar víðast hvar á 5 mínútna fresti frá hverri

stöð, en stöðvarnar eru hvervetna. þó er all-erfitt að rata um Chicago, ef menn ekki fylgja uppdrá,ttura og og muna einkenni, pví vagnarnir fara annað veifið gegnum göng undir síkjum og skurðum. Chicago er nálægt liálfri pingmannaleið á lengd, en miklu nijórri. Yestanmegin er hún ekki fögur, og par eru svæði mikil litt eða ekki byggð. J>ar býr fjöldi Skandinafa, einkum Norðmenn og Sviar, svo og Gyðingar og annað Evrópukyn. Dänir pykja par finastir Skandinafa. í Chicago búa og afar-margir þjóðverjar, og er par heil nýlenda af pýzkum fr:; ^imönnum. Jeg41

kom í einn klúbb peirra, sera kennclur er við Schiller skald; vildi jegsjá dr. Paul Carus, sem sendir oss blað sitt „The Open Court", og ritar allra mamia skarpast og skiljanlegast heimspeki. Hann var pá ekki heima. Há-skóli er í Chicago mikill og stórauðugur, og ótal aðrir stórskólar, listasöfn og leikhús, og jafnvel glæsilegt Óperu-hús. Prægustu stór-blöðin heita „Times" og „Tribune", og er „Tribune" afar-demokratist blað. Á kirkjum og peirra skrauti ber ekki að tiltölu nálægt pví eins mikið eins og í borgunum i Canada, par sem kapólskan hefir yfirhönd, en hinn mesti sægur er ai peim, svo og af trúarflokk-um. ‡>ó virðist Mammon gamli vera par ötid-vegisgoðið, cnda er hann kænni soimm ljóssins, pó minna se um að vera en par er; hefir hann lag á, par, ef til vill, fremur en víðast annar-staðar, að kenna mönnum að pjóna tveim herr-um senn; eru par flestir auðkýíingar klerka-vinir, — pó ekki nema hðfuðprestanna, sem pá aptur á móti sniða furðu vel á, sro peir ekki styggi drottna pessarar veraldar. Hinsvegar er Chicago full af ókirkjulegu fólki. Segja hinir „trúuðu" Yankee-ar (innfæddu), að trú-leysingjarnir séu aðskotadýrin og slarkiolk (Boliemians) úr hinum sabatslausu löndum og stórborgum gamla beimsins. Á Sósíalistum og Anarkistum ber par nú eklci mjög mikið, en hin mcsta óánægju er pó alinenn meðal verk-42

mnnnalýðsitis; fer hann einkum frnni á vissar takmarkanir |iess ódæma auðvalcls, sem þar pvkir raska öllu hófi og jöfnnði undir yfirvarpi laga og lýðfrelsis. Mætti par um rita margt og mikið, on það á ekki við liér. frægustu stórvirki Chicagómanna liefi jeg elcki enn minnzt. Hið fyrsta er pnð, a<5 peir sneru við borgarfljótinu, Chicago, sem rann austur í Michigan; pótti peim pað spilla vatninu með sorpi og ólyfjani. |>eir tóku pví fljótið upp fyrir ofan ós pess og — köstuðu pvi vestur i Missisippi! ‡>á dugði peim ekki vatnsbólin, (þar eru ótal brunnar, einn 1300 feta djúpur), og vildu fá vatn, sem þcim dygði. þá settu peir niður sívalning við vatnið, stigu par niður og grófu lokrœsi undir vatnið 2 mílna langt; síðan gjörðu peir við endann á pessum gýg, á vatnsbotninum, dælustokk (ef jeg kann að nefna) og leiddu eptir honum vatnið til borgarinnar og síðan í pípum inn i og upp úr hverju ein-asta húsi í Chicago. Eru 4 stórvélar hafðar til að „pumpa" inn vatninu, 3-400 mill. potta á degi • hverjum! ]priðja furðuverkið er pað, að peir hækkuðu miðbik borgarinnar, svo pús. húsa skipti, 5—14 fet með húsunum á. ]pótti peim grunnurinn of lágur og vatnið leita á, borgina, er stormar gengu. Fóni peir svo kœnloga að pessu baulci, að peir, seni bjuggu í húsunum, vissu varla af fyr en verkinu var lokið og grunnur peirra hafði hækkað um 243

oða 3 mannhæðir. ‡>eir grófu sem se undir husin og smá-lyptu peim með lyptivél, en lilóðu undir jafnóðum. Um pessi og pvi ura lik stórræði pykir sönnum syni Chicagóborgar gott að ræða. „Já, að vísu, — sagði einn peirra, — er okkar borg mosta bákn og mogin-furða pessarar plánetu. Við höfum haft mesta brennu. Við lyptum borginni nokkrar mann-hæðir upp úr bleytu. Yið létum fljótift renna upp á raóti; við reiddumst, og höfðum pví endaskipti á sprænunni". Stundum ber við, að borgir i Amerikti metizt hvor við aðra í sraá-preinum blaða. Boston-blaðið „Herald" liafði einu sinni sagt: „Chicago er raikil fyrir ser, enda veit hún af pví, og ekki vantar hana á-hugann. Bn hvað álnir hennar snertir, á hún ekki nieira en einn lireppur hérna í Boston. Yið segjum petta ekki til pess að hæla okkur, pví við í Boston hugsum ekki upp á auð eða stundlega iiluti, heldur einungis til pess að sætta okkur við sorann, sem tollað hefir við okkur meðan við höfuni yerið að iðka guðf'ræði, heiraspeki og siðalærdóm". — Einhverju sinni skrapp Chicagómaður austur í rikin; pegar hann kom aptur var hann spurður að, hversu honum hefði geðjast að New York. „Hún New York ? —svaraði hann, — jeg gizka á að hún sé belzt til langt i'rá Chicago til pess að geta verið bjargálnabœr". Ein borgin sagði um aðra: „Hún (Troy) hcfir aldrei eignast44

söngmann að gagni. heinispeking eða fíajgan guðlastara, en áfloganieun á liún nægilega, svo hvergi verði hallæri fyrir pá sok í pessu landi". „Konurnar í New York — sagði eitt blaðið — blístra í kerrunum, en konurnar i Boston lirjóta í rúmununi, og kalla pað .flott'". — „Hver er mest borg í Bandaríkjunum ?" spurði maður Chicagóbúa. Hann svaraði; „New York á peningana, Boston gáfurnar, en v i ð grípuni stórræðin og gjöruni pau

fyrir peningana að austan".

Stræta- og gistiskálalífinu í Chicago hefir einn ritfær maður nýlega lýst, sem hér fylgir: „Útlendum mönnura er Chicago sannir Ófriðar-staðir. Jeg hefi pangað optlega komið síðan kringum 1870 og ví5a reynt gistingastaði á hótelura, sem lik voru risavöxnum völundar-liúsum, en strætaskröltið, ysinn og pysinn, ösk-ur, köll og klukknahringingar liafði gjört mig sárleiðan á slíkum vistarverum. En nú liafði Chicago eignast nýtt hótel, eitthvað 16 loptað, minnir mig, með fleirum en 1000 herbergjum í skr. ‡>að nefnist Auditorium, og er einn salur pess hið mesta leikliús í Bandaríkjunum. fetta risa-hús stendur í Michigan-götunni (Avenue), par sera pykir mest kyrð i borginni, og snýr út að lystigarði peim, sem kenudur er við vatnið (Lake Park). Hér hugsaði jeg mér til hreifings að geta umflúið djöílaganginn á mangarastrætunuin. Hinn afarmikli forsalur,45

sem sýpur upp nålcga alla neðstu gólflengd hússins, er allur innan klæcldur skinandi Onyx-hellum sunnan úr Mexiko. ‡>ar sátu hótel-pjónarnir í öndvegi, og f'engu raer óðara her-bergi á 8. lopti og hentu mér pangað upp á lyptivél, sem paut á stað eins og stormbylur, Heldur en ekki fannst mér til! Langt niðri undir fótum mer hinn hranngræni garður og hið blátæra víða vatn i fjarska, alsett eintóm-um skipuni. Yfir hinni prúðbúnu hvílu var & veggnura bogadregin tafla, og var knappur á henni miðri og lá úr honum rafþráður niður, Ef þrýst var á hann, hringdi klukka í forsaln^ um. Ei)tir röndinni á töfiunni stóðu rituð orðin: handpurka, pappir, skófágan, sódavatn, miðdagsverður, blöð, vín, viskv, o. fl. Jeg purfti ekki annað en stilla vísi á nafn pess hlutar, sem jeg purfti, og hringja svo í rúrai nnnu. J>að var rett eins og borðið í sögunni, sem sagt var við: „Kom með matinu la Á sömu svipstundu var dumpað á dyrnar, og pjónn í einkennisbúningi kom inn moð hið urabeðna, þetta stóð nú allt heinia. En nú purfti jeg að hvílast, eptir 24 tírna ferð frá New York, en ððara en jeg var lagstur niður, rennir ser ein gufulestin fram lijá gluggunuin á hóteliin; með hvínancli dunuin og blístri, og i viðbót sungu í sífellu klukkur í lestinui. Ekki vorq 5 mínútur á enda fyr en önnur lest elti hina með sömu ólátiun, og petta holt áfram og46

Ýakti mig óðara en jeg ætlaði að festasvefninn. En til skemmtunar á niiJli óhljóðauna görguðu einhverir spilamenn og riíu á mér eyi'un nieð ramfölskum tónum. A pessu gekk liðlangan daginn, og pó músikia pagnaði ura nóttiiia, sungu gufuvagnarnir pvi hærra hana alla í gegu. Einmitt gegnuni hinu fagra lystigarð liggja prjár megin-járubrautir borgarinnar. Svona er pá ffiðsælasti bústaðurinn í Chicago! En par-leiidir menn una pessu dárel, vita lika, að áu pessa æðisgangs yrði par öll atviuna að hætta. Eininitt pessi vörulestasægur aptur og fram eptir strætunum, allir pessir huudrað púsundir kútfylltu vagnar með fólk, æsir pá og etur peim áfram. Iðjuleysi koinst par hvergi að; og pekkist ekki. Hvergi á jörðunni hufi jeg séð moira uppnám á strætum eu á peim mílu-ferbyrningi, par sem riðskiptiu eru mest í Chicago. I Cheapside-götunni i Lundúnum, og í Wallstræti í New York cr sviplík um-ferð, en hér eru íuargfalt tieiri stræti utidir lögð en par. Her verzlar líka ekki einungis bálfönnur millión Cliicagóbúa, heldur gjörvöll pau riki eða heruð, scm n;l yfir efri Missis-ippidalinn norður nieð öllum vötuum til Canada.

Annað sem veldur pessum mikla stræta-troðningi er hæð húsanna, pessara turnhúsa, sem Chicagóbúar sjálfir kalla „himinskafa" (Skyscrapers). A vissum tímum dagsins ryðst fjölniiuuið niður á strœtin úr pessum fugla-47

bjürgum, og pá fyllast pau svo, að svo sýnist, sem öll umíi'ið .se stiíiuð og ömögulcg. Mer fannst opt sem væri jeg kökuileig, sem püsuiid-ir lmkara hnoðuðu hver aí' öðrum paugað til það festist einhverstaðar við liQrn cða srnugu. Allar pessar púsundir gana og æða áfram, svo að akmennirnir vorða að gæta vel hestauna, að peir hrasi ekki eða detti. Spyrji jeg Ch.-búa til vegar, uemur hann ekki staðar, liauu liefir engau tima til pess. Eptir miðri göt-unni uiðri f'yrir marrar sí og æ í hinum stál-undnu dragreipum rennikerrauna, sem pjóta fram með dragreipunum skröltandi og skjálf-andi, eu ósýnileg gufuvelaspil draga reipiu (sem kerrulestiu er fest við) eptir aiarlöngum sporbaugum. Akatiega stórir vaguar, með stór-vélum eða öðru háferirii, rogast áfram : parna rekast peir á, lijól liefir sprungið, hestur dott-ið, maður orðið undir lijóli. Yarla noklcur maður veitir pví eptirtekt Jú, jú, löggæzlu-maður hleypur að næstu ljósberasúluuni, snýr sveif, sem par er, og einni eða tveimur min-útum síðar kemur fram lögregluvagn með livínandi klukkuliriuging. Hinn slasaði maður er settur i kerruna og henui svo ekið burt. þeg-ar kemur nálægt brúnum, sem liggja yfir Chicagó-ána, taka allir enn meir til fótanna, seni hver vilji troða annan undir. J»að er til pess að purfa ekki að bíða meðau brýrn-ar eru undnar upp, pví pær eru svifbrýr,

sem48

moð ógnarafli eru látnar snúast eins og vrengja-hurðir, íaeðan skipin fara inn eða út. Vill pá hver nota tækifærið og koraast yfh- í tíma. A tijóti pessu eru hin íuostu hamstola-læti: skip og ferjur hvar sem augað eygir, en afar-háar risabyggingar ofan og upp eptir öllum bökkum, og eru pað allt geymslu- og vöruhús'*.

Ekki má jeg skilja svo við Chicago, að jeg minnist ekki betur á atvinnu hennar. Hún er fernskonar: 1, kornverzlun, 2, sláturverzlun, 3, timburverzlun og 4, fabrikuiðnaður. ‡>ar er meiri vorzlun en í nokkurri annari borg að Xiundúnum undanskildum, og fjöldi skipa, sem par eru fermd eða affermd, miklu meiri en í ]STew York (ura 20,000), en lestatalan lítið minni, pví ckki fyr en nú nýlcga gota stærstu skip komizt gegnum alla skurðina. Er pessi verzlun pvi furðulegri, sein borgiu liggur 40 — 80 pingmaiinaleiðii- frá sjó. þau kynstur, scra paðan eru flutt at hveiti og korni, eru miklu meiii en ver getura haít greinilega hugmynd uiu.

J>að ógrynni kornvöru, seni borgin veitti móttöku 1891, taldist meira en 5 milliónir sniálesta: Allur verzlunarfloti stórveklanna til samans gæti ekki ílotað í einu pvi korni! Verzlunariloti Stórbretalands er sagt að iieyti 1 Va ixai 11. smálestum. Iðnaðartölur borgarinn-ar eru að sama skapi risavaxnar, eða slátur-feð: 15 mill. gripir á ári, mest svin og naut! Skal jeg að cndingu segja lítið citt frá slátur-49

störfunum í pessari borg. Union Stock Yeards heita frægar markaðaróttir utan til i Chicago; pær rúma um tvö hundruð púsund skepnur, naut, svín og sauöí. Er litið að hafa komið í Skaptárrétt á Islandi hjá peirri sjón! ‡>ar nærri era svina-slátrunar-búðirnar; pær eru um 50. í einni búðinni má slátra, gjöra til og afgreiða 20—30 púsundir svína á dag. Margar milliónir svína eru par lagðar árlega að velli. Maður, sem þar stóð og horfði á, segir svo frá: „Fyrst voru svínin, 2 púsund i hóp, rekin inn í kvíar. Siðan var hvert svín á fætur öðru tekið og afgreitt. Yar hlekk með keng í brugðið um apturfætur skepnunnar og i kenginn krækt öðrum hlekk, sem hekk niður úr hjóli. Nú var garminum sviplega rykkt á lopt, grenjandi og spriklandi, en i pví brá maður hnífi á barkann, og pagnaði pá píslarvotturinn fyrir fullt og allt, svoif niður rennistokk og feil í sjóðandi ketil afar-stóran. ‡>ar er svínið 3 mínútur, meðan hinir félagarnir koma á eptir sömu leið. Lítill piltur var hafður til að krækja svínið af áður en pað rann í pottinn, og líður ekki meir en 25 sekúndur á milli. Siðan er hvert svín undið upp úr katlinum og sett á járnrist, sem er úr eintómum eggblöðum, og er skrokkurinn par skekinn í nokkrar sekúndur, með pví mað-ur heldur í einn fótinn; en blöðin á ristinni skafa og skera allt skinnið vandlega af skqm-

450

unni, pvi eggjarnar ganga fyrir gufuafli og eru ekki handstirðar við verk sitt. Enn er kropp-urinn undinn upp og allt rist innan úr honum, og hvað látið sér, eins hausinn, og úr honum tekin augu, eyru, tunga og heili. Er alltpetta aðskilið vandlega og sett í ilát sér. En pað sem eptir er, krofið sjálft, er hengt upp í skála sér, á apturfætur dýrsins, unz kalt er orðið ; pá er pað brytjað og saltað niðnr. Liða 15 minútur frá pví að skepnan er fyrst undin upp og pangað til hún er hengd upp húðlaus, vamblaus og höfuðlaus. —

Með pessu svína-torreki vil jeg pá kveðja Chicago. Er langt frá mér að segja, að frænd-ur séu par frændum verstir, pvi pað er skapa-dómur vors kyns, að eins dauði er annars brauð ; en hins óska jeg, að petta sundlandi svinadráp mætti verða likamleg imynd niður-skurðar pessarar voldugu borgar á öllu and-legu siðleysis „svínarii" bins stórfenga nýja heims!

24. júlí kvaddi jeg Chicago. Yildi jeg gjarnan hafa setið par nokkuð lengur sakir sýningarinuar, en bæði var, að jeg poldi par illa hitann, og hitt, að mig sárlangaði til að sjá hagi landa vorra í helztu nýlendunum. Jeg hafði og lítinn deildar-tíma til að ná í far með „Thyru" norður fyrir í september, sem51

jeg vildi fyrir hvern mun gjöra. ‡>ann dag, sem jeg ók frá Chicago, var hiti ákafa-mikill. Hafði jeg keypt farseðil til St. Paul, og gisti pvi par UDi nóttina á svonefndu Sherman's hóteli. J>ar átti jeg illa nött sakir hitans, svaf ekki og varð að fá mér bað um miðja nóttina. Jeg hafði fengið kveðju frá einum helzta íslendingi vestur í Minnisota, Stefáni Sigurðssyni (frá Ljósavatni). Vissi jeg stefnu og staðarnafn, en hafði gleymt nafni á braut og stöðvum, og hafði pó Mr. Jónas Johnson í Chicago gefið mér pað skrifað. Jeg bað um farmiða til Minneota, en kompán sá, er seldi, apaði mig fyrst lengi og bað mig fyrst kenna sér landafræðina. Loks gaf hann mer miða til Cassota, sem

hann kvað vera par nærri. Jeg á stað snemma morguns og kom par fyrir há-degi. ‡>ar var lítil byggð og auðar preríur af enda og á. Var mér sagt, að par skyldi jeg preyja 3 eða 4 tima og mundi pá önnur lest taka mig til áfangastaðarins. J>ar beið jeg í hitanum lengi dags, en pá segir maður mér, að lest sii, sem jeg tali um, komi ekki i nánd við Minneota, heldur verði jeg að vera næstu nótt á endastöð brautarinnar og kaupa mér næsta dag mann að aka með mig til Minneota, alllanga leið. Mér leizt ekki á pað, hálfveikum eins og jeg var, og tók mér um kvöldið far með sömu lest, sem jeg kom með um morguninn, er pá kom aptur, og ók aptur52

til St. Paul. J>ar spurði jeg um lost, sem iæri til Winnipeg og komst „um borða i hana á sömu svipstund. Meðan viðstaðan varð, purfti jeg að skipta enskri 5 punda nótu, en pær borga ekki aðrir i Ameriku en bankar. Jeg heyri, að öllum bönkum sé pá búið að loka og stend ráðalaus, kalla samt á brautarpjón (negra), gef honum skilding og bið hann hjálpa mér að fá bréíinu skipt. Hljóp hann pá mcð mér í ýmsa staði, og loks bænheyrði mig hótel-maður einn, pó fyrir drjúgar kaupbætur. 011 viðstaðau var tæpar 16 mínútur og var jeg stein-uppgefinn pegar jeg komst 1 vagninn. Missti jeg i pvi fumi nokkra fémæta muni, en til Winnipeg komst jeg daginn eptir. Gisti jeg pá hjá Arna kaupmanni Friðrikssyni og dvaldi pá viku kyr í Winnipeg. Stóð pá til Islendingadagurinn og liöfðu forstöðumenn haas lagt að mér að vera pá við; varð pví af að jeg beið með f'erð mína út í nýlendurnar fram yfir paun dag, enda kynnti jeg mér lífið par á meían. J>að sem fram fór íslendingadaginn, og hluttaka mín í lionum, er mönnum nægilega kunuugt af blöðunum, og fer jeg pví Hjóttyfir pað.

Aldrei hafa Yestur-íslendingar kveðið snjall-ara en við petta tækifæri. Mitt kvœði er lang-fjörminnst, enda var jeg pá ekki h e i m a.

Synd er að brígzla löndum vorum í Yest-urheimi um ræktarleysi til fósturjarðar sinuar. liið viðkvœma íslands-minni Einars Hjörleifs-53

Sönar lýsir einmitt ágætlega hinni líelgu sakn-aðarást, sem lifir í brjósti alls porra Islend-inga, sem vestur hafa flutzt. Leyndi sú til-finning sér aldrei, hvar sem jeg kom og heyrði rœður peirra. ‡>að er missirinn og liin ógur-lega fjarlægð, sem hitar upp og hreinsar hina djúpu ylhvöt, sem heitir heimprá og ættjarð-arást. Ef Amonku-íslendingar üyttu heim og kæmu fölausir aptur að knjám móður sinnar, mundu víst, eins og nú stendur, bræðurnir ekki taka peim marglega. Ivemur það af pvi, a5 bæði mundu menn pylcjast hafa nógum að skamta, enda yrði svarið: fér var nær að fara hvergi! Aptur má pað vera vel kunnugt, hve bróðurlegar viðtökur berir og snauðir vestur-farar hafa fengið hjá löndum sinum pegar peir hafa hert á hurðir peirra; sá jeg sjálfur full deili til pess. Nýjar hræringar og kynlegar komu i huga minn, er jeg sat á ræðupallinum og horfði móti mannösinni å bekkjunum and-spajnis. Stóð par í hálfhring bekkur yfir beklc, svo rüm var fyrir púsundir. Allt petta fólk var vel klætt og vel útlítandi. Og allt petta fólk var íslenzkt. Með heitum yl og lilut-tekningu leit jeg yfir unga og gamla, cinkum börnin og hið aldurhnigna fólk, og aldrei skildi jeg betur en pá stund, hvað pjóSræknin er: að hún er mannsins dýpsta og dýrasta sálar-aíl, sem, frá pvi sögur hófust, hefir ómað frá liörpu ßkåldmæringanna og kveðið við hátt i54

sverðum og atgeirum kappanna, sem barizt hafa eða fallið fyrir land og lýð! Ó, pú háa og göfuga mannssál! |>ú. ert eins og hið máttuga himinlopt, pú sýnir ekki krapt pinn fyr en pú ert eins og pað bundin járnviðjum; pú ert gullið, sem fyrst sýnir sinn báa eigin-legleik í sjöföldum eldi! í pví fólki, sem jeg horfði á, sá jeg petta „brennda gull". ‡>ví virtist öllu liða vel og i mörgu betur en gjör-ist heima, en — hvað hafði pað lagt á sig og liðið ? og hvað hafði eldur reynslu og umbreyt-ingar gjört við pað ? Nú pola vesturfarar litla nauð hjá pví, sem hinir fyrstu poldu. J>ær sögur fara ekki hátt, en pað sem jeg heyrði, gekk í gegnum mig. J>ar man nú margur maður tvær æfirnar. Og enn gildir pað, að Dýkomið fólk grípur ekki gull upp án erfiðis I Ameriku. En meira um petta síðar.

Heldur var heitt veður pennan íslendinga-dag, og naut jeg min ekki meir en til hålfs. J>óttu mer og ræðuhöldin æði-löng, en lang-orðar tölur munu rera par landssiður. Allar voru tölurnar vel hugsaðar og fornilegar; lang-frumlegust var pó ræða séra Hafsteins: „Bón-orðsförin og búskapur Jónatans." Hún er valið ?eíintýri fyrir unglinga. Séra H. P. er gáfu-maður mikill og hinn mælskasti, en ekki er rödd hans og framburður par eptir. þessa kyrðardaga í Winnipeg heimsótti jeg fjölda landa par, pó jog nefni fáa. ]peir scm eink-bó

um liðsinntu mér af heldri mönnum voru peir herrar: Jón Ólafsson, Páll Bárdal, peir Páls-synir (Paulson) AVilh.

og Magnús, pau hjónin séra B. Petursson og hans góða og göfuga enska frú; séra B. Johnson, nývígði presturinn; Björn Skaptasen frá Hnausum, Mr. Jo-hannesson. o. fl. Tóku mér allir sem vini og góðum gesti, Hús peirra liggja flest vestur i bænum, eru par flest hús smá og byggð handa einni fjölskyldu; flest eru úr timbri, snotur og vel máluð og skreytt; bregður manni við að sjá par hinar ótölulegu tilbreytingar á íveruhúsum, sera ótíðar eru á Englandi, auk heldur hjá oss. Eru Amerikumenn orðlagðir húsasmiðir, en um smekk peirra kemur mönnum ekki saman. Ejöldi íslendinga eru kaup-skaparmenn, sumir fullkomnir kaupmenn; aðrir eru bakarar, slátrarar, mjólksalar eða ein-hverjir iðnaðarmeun; enn aðrir eru starfsmenn og vinna óákveðna vinnu. Enga sá jeg par purfamenn, aðeins 2 eða 3 menn, sem litið eða ekkert höfðu á að lifa, og var peim sjálfum um kennt. En amlóðar, sem stundulir eru, vinna sér par vons heldur brauð, pótt lægra íái kaupið, og unglingar fá opt starf við peirra hæfi, pví kaupgjald fullorðinna er of hátt fyrir félítið fólk. Á hina síðuna eru fáir landar par betur en sæmilega megandi, og fer pað mjög að líkindum, pví engir peirra hafa enn ráðizt í stórræði, pví síður í féglæfrabrögð,sem par i landi cru ekki ótítt. Eitilwer lielzti borgarinn par af íslendingum er Arni Frið-riksson, og så eini, sem kosinn liefir vcrið i borgarstjórnina par, en margir aðrir eru vel metnir og komast eflaust smásaman að bæjar-málum. Bænum er skörulega stjórnað og stór-framkvæmdir gjörðar árlega honum til bóta og prýðis. í fyrra voru rafsegul-sporvegir lagðir um allan bæinn, og er pað stór-hagræði og skemmtun, að lljúga á peim fram og aptur. J>á var og bærinn lýstur með raíljösum. I sumar var með kappi verið að fœra vatns- og hreinsunarrennur vestur um borgina, og um pað pví stórvirki er lokið, verður stéttalagning strætanna fullgjörð; en slíkt verk er bæði seinlegt og dýrt í hinum viðlenrlu borgum par í landi; er og víða gengið á trépöllum, og svo er víðast enn í Winnipeg. Austan til er bærinn bæði skrautlegur og stórborgarlegur; býr par flest ríkisfólk; par eru glysbúðirnar, banka-liúsin, hótelin miklu og boi-garhöllin; er hún Ijómandi fögur bygging. Manitoba-liótelið sezt einna lengst að; pað er með turnum og eitt hið veglegasta hótel í Ameriku, og er pá rnikið sagt. ]pó pótti mér Windsor-liótelið í Mont-real fegurra. Fyrir austan bæinn rennur Rauðá og er all-mikið vatn; í liaua rennur fljótið Assiniboia nokkru neðar; pað kemur að vestan og er all-mikil á. Með ánurn eru skóg-ar og aldingarðar bœjarins, en skóglaus preria57

nb iiorban, útsunnan og vestan og er bürl marfiöt. Franskt porp eða bær er á austur bökkum Rauðár; pað beitir St. Boniface, snoturt mjög og skógur urahverfis. ‡>ar er dómkirkja og böll raikil ; situr par erkibiskup. par er allt franskt og með öðrnin blæ. J>ar er og nunnuklaustur. Við Jón Ólafsson og Mr. Jo-hannesson (Sigurður), ágætlega vel hagorður maður, skemmtum okkur par einn dag, og viðar ókum við með ánum. Yestan til og sunnan pótti mér landið æði-einmanalegt, pvi ekkert hvílir augað. Stæði jeg einn og horfði par út í bláinn, varð mér sviplíkt eins og pegar mér barni var fyrst lofað að fara með eldra fólki fram á grasafjall í Skógum. Mer varð síðnr en ekki ura sel, er jeg så öræfin og pað Ófærufell; jeg bætti að tíria og horfði í gaupnir mér. Og pegar fólkið fór að brosa að mér, lagði jeg balann á bak og lallaði af stað alla leið beim til móður minnar. Hún fagnaði mer vel, hló og sagði: „J>að bugsaði jeg, pú befir óttast álfafóllíið PíC „Nei, —svaraðijeg — jeg hræddist fjöllin!" En hfcr brœddist jeg slett-urnar, víddina, pögnina. pað er vaninn tómur sein gjörir, að náttúrunnar mikileikur og dá-serad ekki tryJlir oss. Lik tilfinning gagntók mig á Atlanzhafinu. J>ar datt mer í hug vinnumaður úr Fljótshlíð, sem í fyrsta sinni kom út á sjóinn við Eyrarbakka. Hann lagði inn árina, góndi upp í loptið og sagði: „Ógu58

er djórinn clór (sjðrinu stór)!" Sumir landar kváðust aldrei una vel á pessum preríum, heldur sí og æ prá að sjá aptur sjó eða fjöll. Fyrir pvi kjósa peir sér helzt land eða byggð par sem hálent er, se pess auðið. — Eitt var pað sérstaklega, scm jeg ekki kunni vel við i Winnipeg. ‡>að var vatnið. f>að er væm-ið mjög, og til er par vatn, sem ekki er betra á bragðið en — Göngu-Hrólfs-rímur!

A r g y I e.

Dagana 4. til 8. ágúst var jeg vestur i Argyle-byggð; pað er nál. 5 pingm.leiðir suð-vestur trå "Winnipeg. Mr. Fridrikson fór með mér og gistura við hjá bróður hans Friðjóni kaupmanni í Glenboro, og fengum ágætar viðtökur. Friðjón er, eins og Arni bróðir hans, kvongaður beztu konu og á efnileg börn. Hann er talinn dável fjáður raaður, enda er hann vel fraraaður og vitur maður. Glenboro er spánýr bær með nokkrura hundruðum íbúa; stendur á sléttu-ávala vestur af og andspænis hinum fögru Argyle-hæðum. Mér leizt mjög vel á petta preríubæjar barn ; er Friðjón par ein-hver fyrsti maður, pótt ekki búi par aðrir íslend-ingar; sýndi hann mér og sagði öll peirra ,.plön" bænum til prifnaðar; einkum leizt raér vel á barnaskólann og allt hans fyrirkomulag; var Friðjón gjaldkeri

hans og helzti oddviti.59

Litur og stjórnin vel og skörulega eptir öllum skólum, launar kennurura, og má enginn rera það, sem ekki heíir próf tekið. Taka Ameriku-menn langt fram Englendingum frændum sinum umj allt, sem að unglingaskólum lýtur. Er par kennt miklu fleira og margfallt lengri tíma en hér á sér stað, og skólafriin óvíða nema 1/3 úr missiri. Hvert barn kefir sæti og púlt fyrir sig; stofurnar háar, hreinar, rüm-ar og bjartar. Hver skóli á fasteign. Hverju héraði (County) er ávallt skipt í fleiri eða færri hreppa (Township), en hverjum hrepp i 36 parta (Sections) jafna ferhyrninga, sem hver er 480 ekrur, eða 4 ból (Lot). Nú hefir stjörn-in (pjóðin) lagt 2 „parta" (960 ekrur) til skóla, og nota menn pá eign eptir kringumstæðum fyrir skólann, pvi stjórn er nijög frjálsleg, en kennsla ókeypis.

í prjá daga ókum við um nýlenduua og mætti jeg mikilli gestrisni og bliðu hjá Argyle-búum. Leizt mer að jafnaði bezt á pessa af peim byggðum, sem jeg sá eða hafði nákvæma lýsingu af. Er hún einkar hýr yfir að líta, lágir hálsar eða háar öldur, víða prýddarlauf-skógabeltum, en pess á milli grænar brekkur eða slakkar, dældir eða pá blikandi, renni-sléttir akrar. Eru hveitibreiðurnar einhver hin inndælasta sjón fyrir augað, par sem full-sprottinn akurinn kvikar eins og gullhaf í sól-unui. J>ykir og flestum bændum furðulega00

VBcnt um akurlönd sin, eins og forðum liinrt liiigi bróðir Ólafs helga lét á ser heyra, ei hann helzt kvaðst vilja eiga „akra". Flestir landar búa enn i sinum frumlegu bjálkahúsum (Loghouse), en margir hafa lopt i peim og allir einhver skilrüm. Flestir frumbyggjar landsins hafa sama sið, og geyma sér að reisa „civilíseruð" hýbýli pangað til umhægist. Ekki grípa menn gullicJ hin fyrstu árin, heldur hljóta menn bæði að vinna mikið fyrir pvi og neita ser um mörg hægindi. Hið i'yrsta er reyndar að koma upp skýli yfir sjálfan sig og skepnur sinar, en par næst og jafnframt að ra;kta jörð-ina og koma ser upp akrinum. En að pvi er ekki auðhlaupið, pótt jörð sé fengiu og hün se plógland, svo ekki purfi að ryðja til hennar. þá parf að kaupa áhöldin, og pau kosta fé, fyrst oyki og plóg, en síðan vélar pær, sem frumbýling eru ómissandi, enda eru ótal sinn-um ódýrari en stöðugt fólkshald. f>á parf að íá ser skepnur í bústoín. Komust íslendingar vestra snemma til peirrar niðurstöðu, að miklu betra se að hafa kvikfe, einkum kúpening, til vara og styrktar (mixed farming) en tóma hveiti- eða kornrækt. Er peini og lirósað fyrir ráðdeild og hagsýni sem frumbyggjum og pykja tijótari til að nota ný ráð og áhöld, en aðrar pjóðir, sem inn flytja, enda fipar pá eklci forn-venjan í akuryrkjunni. J>að pótti mer helzt að pessari snotru og frjóvu nýbyggð, bæði hve61

lítil hún er — likt og meðalstór hreppur íl íslandi — og hitt, að ekki geta stórum fleiri ílutt pangað, svo er landið numið og liyggt allt umhverfis. ^ó geta peir, sem efnphafa, jafnan fengið par jarðir til kaups bjá ö3ruui pjóðum, pví opt vilja menn selja og færa sig, enda pó lönd pylci góð, meðan menn ekki liafa fullbyggt eða sett fé sitt fast i dýr hus og garða. Er par nóg að velja um og ýmsir eira hvergi. Margir kjósa og að búa seni næst sinum löndum, og fyrir pessar sakir må vel vera að byggðir landa bæði í Argyle og Dalsota færist drjúgum út með tið og tíma. Innfæddir menn par eru braskmenn miklir, afar-mikið hneigðir fyrir kaupmang og onnur viðskipti, lána gjarnan fé og færa sífellt byggðir sínar. Má pvi hvervetna fá jarðir keyptar og pað góðar. Leigan er liá, minnst Saf lOO, en pen-ingar bafa par eptir pví lágt verðmæti, og jarðir borga opt sjálfar háar leigur. jj>cir Friðjón brœður eiga enn tvo brœður, er büa báðir i Argyle Yiö komum fyrst til annars peirra; voru liestar okkar látnir inn pó heitt væri, pvi liestar eru par afar-stórir og van-stilltir ef eitthvað ber ut af, J^ar var ljüffeng, ný steik á borðum, er inn kom, og nýmjólk feit og svalandi. Hengja menn hana niður i djúpa brunna, pvi með pvi eina móti hitnar hún hvorki ne súrnar. Bóndi átti fagran akur og allmarga nautgripi og lu-oss. Viðast hvar62

umgirða bændur haglendi sín sem akra, og cr pað mikill kostnaðarauki, en víða býðstefnið, ef skógur er nærri. Næst komura við að garði Snorra bónda Arasonar. |>ar er gullfallega umbúið og húsakynni ný, enda er hann par með gildustu og beztu bændum. ‡>á komura við til Björns bónda, bróður Kristjáns skálds. Hann er og mikilsháttar maður og vel að ser. Sonur hans hinn ezti, Björn, var prestvigður í sumar, efnismaður. Björn bóndi bjó í dæld undir hávöxnum skógarlundi. J>ar var nijög frjótt og átti hann góðan akur. Hann sýndi mer gufupreskivel, sem hann og nágrannar hans áttu. Hún kostaði 3000 dollara og var hin mesta gersemi. Aðrar velar eru knúðar af 10 hestum. Góð vél þreskir 1000 bushel á dag (en gildur maður með pusli varla 10!) Hann sagði mer að hann hefði pá lokið hey-skap sínum og fengið nálægt 34 kýrfóðar eptir 2 nienn og ungling nieð 2 hestum

á 14 dögum. Slær ein sláttuvél allt að 6 kýrfóðrum par á dag, og rakar hrifuvélin það á hálfum degi; fyrir henni gengur 1 hestur, en 2 fyrir sláttu-velinni, og enn 2 fyrir kornskurðarvélinni (bindari). Eru allar pessar vélar, og pó ekki sízt „bindarinn" (sem bœði sker, kippir upp á sig, hnýtir, klippir frá og kastar bindinu frá sfer) hin raestu meistaraverk manulegs hugvits og haglciks. Loks komum við að Grund, bæ Mr. Sigurðar Kristoferssonar. J>ar er einna63

fegurst og viðsýnast, skógur all-mikill á hœð-inni norðanvert við garðinn, og eru göng dimm og svöl gegnuni hann yfir ásinn og er par fögur tjörn og tær niðri fyrir. Erú Kristo-fersson er kvennskörungur og eiga pau mörg efnileg börn. Hún er systir frú Súsönnu Briem. Hitti jeg par Mr. Taylor föður peirra, sem býr par nærri og á íslenzka konu, sem hann kvongaðist i elli sinni. |>essi heiðurs-verði öldungur er mjög kunnugur landnámi og baráttu landa vorra frá fyrstu árum, einkum var bróðir hans lengi leiksbróðir og leiðtogi peirra i Nýja-Islandi, og reyndist peim hinn bezti drengur, og báðir voru peir valmenni. A Grund er póststaður, enda liggur bærinn í miðri sveit. Sigurður bóndi var pá ekki heima, heldur liér á landi; er hanu talinn einhver liinn ötulasti allra bænda par, og ekki gåt jeg láð honura, pótt hann heldi fram byggð sinni i Argyle. Satt að segja hygg jeg að flestum bændum líði par vel; pótt háraði peirra kunni enn að vera í nokkrum skuldura. Ber pess að gæta, að búskapur peirra par er einungis fárra ára gamall. en margir byrjuðu með litlura eða engum efnum. J>arf og rnargt, eins og áður er sagt, til bús að kaupa par sem annarstaðar-Aðfœrsla öll er par liæg mjög, engin ferðalög að kalla, ckkert vos eða hrakningur, en matur mikill og góður. Er par pví enginn sultur pó einhver sé með litlum efnum ; styður hver64

íinnan ; ætla jeg að par se enn !iið bezta sarn-komulag railli manna. Sveitapyngzli talar enginn um, entla cru engin fátœkraútsvör ákveð* in. Mjög mft par vel nota börn og örvasa fólk til vika eða undirlettis. Aðalútgjöld allra bænda par eru prestsgjöld og skuldarentur. Hefir nú allur porri peirra mjög í lmg að bæta húsabyggingar sínar, og fríkkar pá óneit-aplegii stórum bjá peira. Svo er sveit pessi frjó, og svo kynja mikil kornrækt (mest liveiti) er par komin í gang, að peir Argyle-Islend-ingar (um 130 bændur) fullyrtu, að peir fái ár-lega nægilegt kora fyrir allt ísland cða hér uni bil 70000 tunnur!

Jeg bafði ásctt mér það, sem jeg enti, að skipta mér sem minnst af kirkjulegum raálum meðan jog stæði við hjá Jöndum mínuni. J>ú slapp jeg ekki alveg. ‡>ar í Argyle var prest-laust að niestu, pvi prestur peirra, séra Hafsteinn, pjónaði söfnuðinura í Winnipeg í for-föllum sera Jóus. Menn báðu mig pvi í Argyle un) eina messu í kirkju peirra, og let jeg það eptir peim. Kom par sainan hávaði fólks úr nýlendunni. Heitt var og preugzli mikil. Jeg hafði fyrir texta orðin : „Hvað er langt heini?" Kirkjan var siioturt hús og sviplík stœrstu og laglegustu sveitakirkjum bjá oss. Süngur var góður og dável leikið á bljóðfæri kirkjunar, ' Er par fyrir söng Sveinbjörn Hjaltalín frá Stykkisbólmi. Yfir 100 vagnar,65

hver með tveim hestum fyrir, stóðu i kringum kirkjugarðinn; hafði jeg aldrei sjeð slíkan reið-skap hjá íslenzku fólki. Allt var fólkið með ensku klæðasniði og flest vel búið, karlmenn á frökkum eða „jðkkum" og með mjallhvítt háls-lín, og konur flestar klæddar eptir tíðskunni í höfuðstaðnum. þjóðbúninga sjá menn sjaldan í hinu nýja landi, er hin ensk- araeríkanska tíðska og pjóðerni allt of rík til pess. Jeg skírði par prjú börn.

Næsia dag var samkoraa mikil haldin að Grund, og mætti par aptur fjöldi byggðar-manna. Var pá 100° hiti á jFahrenheit, en pó all-hvass vindur; bætti það hitann, að fundur-inn stóð í skugga skógarins við áður nefnda tjörn. Friðjón kaupmaður stýrði samkoniuntii. Yar þar söngur góður og mjög fjörleg ræðu-höld. Aldrei hefi jeg heyrt íslands minnzt með raeiri aivöru en moðal Ameriku-lslend-inga. Her heima kveða menn og prédika um ágæti ísafoldar eptir vanans og hégómans for-skript; par meina menn hvað þeir segja; hér, meðan menn horfa ä landið og eiga það, er það peim eins og óvirkilegt, en par sem menn sjá það ekki né eiga, par erpað fólkinu virki-legt og vcrulega lcært. Sannast her, að sá veit fyrst hvað átt hefir, pegar misst hefir. þó kvaðst par enginn peirra, sem jeg spurði, vilja liytja vistferlum eða alveg heim, en fiestir kváðust prá að mega sjá aptur hina kæru átt-haga, og margir, einkum kvcnnfölk og oldri meuu, munu bora leynilega heimprá i brjósti. í borgum mnn minna gæta ópreyjunnar, par glopur fleira fyrir en í nýlendunum, par sem fámennið er og hvert lms er fvrir sig, pótt sjaldan seu langar bæjarleiðir milli býla. Yfir höfuð leit Argyle-folk sællega út og ánægju-lega. Mun og mörgu pess mjög bregða við frá Nýja-íslandi, pví paðan eru margir, sem par búa, eins og líka all-margir Dakota-bændur.

Ekki man jeg hvernig minnum og ræðum var niðurskipað, en lielztu rrcðumenn voru peir brœður Eriðjón og Arni, Jón bóndi Björusson (frá Heðinshöfða), Kristján sonur hans, kaup-maður á Baldri, og bróðir hans, Tómas, sein er skólakennari, fornkunuingi minu Halldór Magnússon úr Helgafellssveit, Jón Björnsson, (sem líka flutti kvæði um ísland), og Skapti Arason. Sjálíur rar jeg heiðraður með kvœði; hafði pað ort Sigurbjðrn Jóhannesson, og var vel ort. Ýmsa góðkunuingja sá jeg par, Sig-urð Laxdal frá Akureyri og konu hans, hjón-in frá Draghálsi syðra, snilldarfólk, sem jeg hafði gist hjá, og svo var um fleiri; buðu mér margir heim, en tíminn meinaði að piggja. Sendi jeg peim nú öllum kæra kveðju mína og pakklæti! Er pað mín spá, að pessi hill litla en fríða nýlenda verði auðnupláss og eigi meiri framtið fyrir höndum en nú eru likindi til. J>œtti mer ckki óliklegt, að landar vorir67

auki par byggður sínar mcð tíð og tíma, cn aðrir rými fyrir peim. Kyti vort á eim seiglu, og pess hæfilegleikum nnui okki af öllum hrós-að ófyrirsynju,

Ilm kvöklið undir sólarlag kvaddi jeg hið gestrisna Argyle-fólk. Sagði einn bóndi pá víð mig: „Nýr siður mundi pað hafa pótt á voru gamla landi, hefði allir brendur með kou-um sínum í heilli sveit riðið í einu út heilan dag til að skemmta sér í breyskju perri um túnsláttinn". Jeg kvað pað satt vera, og het að freista peirra okki til slíkrar frátafar næsta sumar. En bóndinn bað niig blessaðan að koma sem optast, pess vegna. Eptir bezta beina hjá húsfrúnni á Grund, ókum við heirn 9 eða 10 mílur til Glenboro. J>á var logn, en dimmir skýbólstrar í lopti; eltu okkur smá-hópar af bitfiugura (Mosquitoes), en pær aptur svonefndar drekaflugur, stórir vargar, næstum eins og selningar, f»œr eru meinlausar við íueiin, en gleypa sináíiugurnar, og máske vita á illt. ‡>ví pegar minnst varði datt á storraur og stoypiregn með ákaflegum prumum og eld-ingum. Náðum við alvotir og moð herkjum heini. Kom í pví aptur liið blíðasta veður; eru slíkar ruinbur einkennilegar par i landi; bafa menu hér enga hugmyiid um prumuveðrin par, ne hve skjótt par breytist veður ef prum-ur eru með eða stórhagl. Næsta dag kvaddi jeg hiii góðu hjón í Glenboro, dóttur peirra,

5*68

friða og gjafvaxta. og ungan og lítinn son, sem heitir Kári. Lofaði jeg honura að koma aptur til að skjóta úlfana á preriunum, sera hann mikið hugsaði um, likt og börn hjer um mannýgu bolana.

Yið Friðjón rareltum til vináttu með okkur og að skiptast á brefum. Héldum við Arni síðan til Winnipeg, og bjóst jeg að fara pegar daginn eptir suður í Dakota.

D a k q t a.

Elzti vinur minn í Ameriku, séra Jón Bjarnason, var ekki heima. Hafði hann, eins og kunnugt er, verið fárveikur mikið á annað ár og engir ætlað honum líf, allt til pess er Móriz læknir Halldórsson kora til sög-unnar. Hann kannaði mein séra Jóns og skar sár hans upp og gjörði við á nýjan hátt, og tók pá meinið að batna. Fór séra Jón suður í Dakota með honum og dvaldi par lengi og batnaði óðum. Hafði jeg aptur og aptur feng-ið bref frá honum og fleirum að koma pangað suður, en pað dróst sökum íslendingadagsins og ýmislegs annars. ‡>á dvaldi séra J. B. á Garðar hjd vini sínum, séra Friðriki Bergmann. Grjörðu peir nú svo ráð fyrir, að jeg finndi fyrst Móriz lækni og að hann leiðbeindi mér til Garðar. ]par sem ekki ganga brautir, verða lcunnugir uð ráða ferðum, pvi margir cru veg-69

irnir og er vandi að velja pá hagfelldustu; vildi jeg flýta ferð minri en koma pó sem víðast við í byggðinni. Um petta ferðalag mitt stóð ráðagjörð mikil í Winnipeg. Yildi J. Ó. að jeg stœði sem minnst við hjá klerkunum, vildi að jeg kæmi fyrst og dveldi lengst á Mountain, par sem Heimskringlu-menn byggi, enda peir sömu menn, sem drengilegast hefðu styrkt ferð mína. ‡>etta skildist mér vel, en síður frjáls-lyndi J. Ó., að vilja ráða ferðum mínum frem-ur en mér litist sjálfum. Hafði jeg pó sagt honum, að jeg mundi ekki skipta mfer af mis-klíð peirra. Yarð okkur petta að ágreiningi, og pótti mér illt, pvi að jeg hætti ekki heilsu og lífi í pessa vesturför sem fylgifiskur eða undirlægja nolikurs flokks eða manns, en a3 binu leytinu póttist jeg vera mjög skuldbund-inn J. Ó. og peim, sem mest höfðu stuðlað til ferðar minnar. Eflaust hefir J. Ó. og fleiri búizt við að jeg mundi opinberlega fylla ílokk peirra, sem frjí.lslyndur trúmaður, en pegar áður en jeg lagði af stað vestur, fann jeg enga

bvöt hjá mér eða köllun, til að samlaga mig Úiíitörum par vestra, hafði jeg löngu áður fundið að jeg kom mer ekki saman við pá. Jeg hafði löngu áður skilið, að fæstir peirra eru pað sem meun kalla Cbannings-menn, en dr. Channings (Kjannings) Unitarismus ætla jeg að sé sá eini, sem á nokkra framtíð í vændum. í AVinnipeg sá jeg og lítið kirkju-70

legt líf af peirra hálfu, enda var kennimaður peirra, sera Björn Petursson, pá veikur. Mín skoðun er, að sreki pessi „framfara"- (advan-cing) Únitarismus einu feti framar, og hverfi hann ekki niiklu fremur aptur til ákveðinnar trúar, með Krist fyrir miðpunkt, pá se öll trú (í eldri skilningi) liorfin og ö)l kirkja farin! Jeg veit að margir hinna yngri hafa allt aðra skoðun, en jeg efast um, að peir pekki betur enn jeg, hve háskalega nærri pessi nýji TJni-tarismus liggur hinni nýju vísiudalegu lifsskoð-un, soni setur allan heiminn liérua iuegin og pvertekur fyrir alla opiuberun. Hin forna trúarbygging er syo stórkostlegt furðusraiði guðlegs og inauulegs anda, að pað er ekki fyrir börn, að rífa hana niðtir og byggja nýja. Ef pað ætti að vinna, pyrfti nýjar guðlegar stór-hetjur. Hiu aðferðin, að vilja fella sumt af hinu yfirnáttúrlega, en halda surau, pað samsvarar hinuni bernskulegu papþirsbótum á gömlum og reyndum stjórnarskrám. J>ví pá ekki heilt lýðveldi? Og hvað á petta hálfeinfeldnislega lcák nútímans, sem segir við guðdómiun : haltu mér— slepptu niér! og fullnægir að lokum fáum eða engum sálum? Hversvogna? Af pvi að eldinn vantar, andann, Iifið, sannfær-inguna, paö guðdónilega, sem gagntekur og gefur hungrandi sálum lif og aiula og alla bluti! Å liinn bóginn veit jeg vel, að niiðalda dogmatikin stendur tæpt, pvi bún ber íneð71

ser mannlegt snið og er eins og allt undir sólunni háð alheimsins framsóknar- og breyt-ingarlögum. En rettur hinna mörgu, sem enn lifa og deyja í hennar lífsskoðun, heimtar há-stöfum, að hún megi njóta friðar og helgi í lengstu lög — meðan ekki er betra að bjóða. Bótin er, að allir sannir kennimenn á vorum döguni kenna i raun og veru likt, ef ekki hið sama, hvaða trúarflokki sem peir fylgja; og æ fleiri og fleiri guðfræðismenn taka að skilja, að ekki einungis ofsi í trüar-efnum sö skaðlegur og rangur, heldur og öll negatfv aðferð. niðurrif og byltingar, sem hjá verður komizt. J>að sem mönnum er heilagt, á að ftl að vera í friði til uppskerudagsins, til síðustu úrslita, annars uppræta menn hveitið með illgresinu og skemma sllnn akurinn. En hvað á að segja um skaðlegu kreddurnar ? og hvað um klerkavöld, ofbeldi, hjátrú og hleypidóma? Svar: allt petta á að smá-sigra með stillingu, rökum, skynsemi og bróðerni. Bókstaflegum innblæstri trúir ekki lengur nokkur vel menntaður maður, en á gæzku guðs og b'róðernis-samband mannkynsins trúa flestir. Hér mætast menn. J>að er nóg ; svo má poka hinu til hliðar, pví sem er að daga uppi fyrir ljósi pekkingar og reynzlu. Og pví er verið að poka til hliðar, jafnvel í kirkjunum sjálfum. Jpessregna sé jeg enga nauðsyn á að segja skil-ið við gamla Lúther eða hans litla-Katekismus72

— einkum se maður nú eínu sinni íelagi hans kirkju. En — svo jeg gleymi ekki löndum vorum í Winnipeg, skal jeg taka pað frara her, að pað sem sýnist mest skaða kirkju- og sarnlíf par, eru hinar ljótu og hóflausu blaða-deilur. Trúardeilan par virtist mér stafa meir af öðrum hvötum en trúnni. í litlum og ung-um pjóðfelagsskap koma margar deilur á dag-skrá, sem pá er hætt við að klæði sig búningi einhvers almenns „prógramms", sem úr pví blekkir menn svo, að peir trúa á pað, og í-mynda sér úr pví, að peir eingöngu berjist um pað, og hitt, sem á milli ber, sé ekki ann-að en mótstöðumannanna ótrúlega heimska og pråkelkni. Eiga svo úr pví ýmsir högg i ann-ars garð, en aðalmál prógrammsins verður út undan, eða íær skömm og skaða. Vil jeg svo låta úttalað urn petta mál að svo stoddu, og biðja menn að afsaka útúrdúrinn.

Jeg er nú kominn til Dakóta-nýlendu ís-lendinga, og dvel par frá 9. ágúst til pess 15. Einar Hjørleifsson, skáldvinur minn, fór suður með mér, eins og hann svo snilldarlega skýrði frá í Lõgbergi. Á ieiðinni lásum við hin spá-nýju Hannesar-ljóð, sem hresstu okkur betur en brennivín á Kaldadal! J>að eitt pótti mer strax að pessum unga, skörulega kveðskap sem hcild, að ekki var all-hægt að sjá, hvort höf-undi lians hefir farið fram eða aptur í 8 eða 10 ár. Jeg las líka nokkur ný kvæði eptirld

félaga minn í vagninum, og á peim póttist jpg sjá rissar framfarir, pótt hann sé og vorði nokkuð einrænt skald, og andi kvæðanna ekki hraustur eða kátur og kjarknrikill. pað geta ekki allir verið jafn ungir eða glaðir og gal-vaskir i lifsins striði og stórviðri. „Sá hlær að örum, sem varð aldrci sár", segir Shakspeare. En — pað var allt gott og blessað; skáldunum er allt leyfilegt — nema að vera leirskáld! Yið komum fyrst að peim bæ eða stöðvum, sem

Grafton heitir, og var dr. Halldórsson ókominn. Gengum við félagar pvi til hótels til snæðings. Mér þykir góður bjór í hitum, eins og föður vorum Lúther, og bað um flösku. J>ar kom pvert nei. Jeg spratt upp reiður og spurði, hvi pað sætti. Mér var svarað, að þing hins glænýja Norður-Dakóta ríkis hefði pau lög út gefið, sem bönnuðu stranglega alla bjór- og vínsölu par í landi. Er petta frelsi, offrelsi eða ófrelsi? hugsaði jeg, en Einar, sem pekkti betur mannlegan breyskleika í Ameriku, spyr brosandi veitingasveininn: „Hvað hafið pið næst eða líkast bjór á svona hóteli?" Maðurinn leit á okkur ámátlegum augum, brosir svo og spyr, hvort við séuin langt frammi nokkuð skyldir leyni-lögreglunni. Einar bað manninn hœtta allri hjátrú og hleypidómum og koma strax fram með eitthvað forsvaranlegt, svo land og lýður kafnaði ekki í ólögum. Hann fór og kom aptur með nógan bjór handa premur!74

Síðan ók „vertinn", kátur Norðmaður, á sfcað með okkur og sýndi ókkur 2 bjórflöskur, sem biðu taks undir sætinu. „Svona er nú lífið í Líverpol!" sagði raaðurinn Miðja vega raættum við lækninum, sem var að srekja okkur; héldum svo 4 áfram. Yegurinn var langur, 18 enskar mílur, og hreppt-ura við óttalegt prumuveður með steypiflóði, som rennvætti allt á svipstundu. Var sú stund ógurleg og kvaðst enginn hinna priggja rauna pvílíkt fár: kolamyrkur og eitt eldhaf skiptist á leiptui'-tljótt, en prumurnar dundu í sífellu, moðan loptið hellti yfir jörðina, svo vegurinn varð sem fljótl Hestarnir runnu som aftók með hangandi liöfuð, og enginn mælti orð. Viðtökunum hjá Móriz lækni lýsti Einar rit-stjóri vel og maklega í Lögbergi. Hús hans og húsbúnaður var eins og liöfuðdoktor sóradi. fó bar frú hans langt af, pví Móriz á staka konu að góðleik som fríðleik. Dugnaður matins-ins og olja er makalaus. pað, sem einkum kom lionum óðara í álit, var hans skjóti og skörulegi dugnaður við sullaveiki landa hans, sem parlondir læknar fældust og kunnu ekkert með að fara. þó hefir Móriz jafnan með ser innfæddan lækni ágætan, bæði til að kenna honum listina og til að hjálpa ser. Taka peir báðir (og skipta með ser) 300 doll. fyrir að ekora sulli úr manni! Að „brenna" er par ekki brúkað. Móriz kvaðst forviða yfir pví, bvo margir ísleudingar hafi pessa voðalegu75

meinsemd ; en aldrei yrði hann sulla var í íslenzkum unglingum, sem fæddir væru par vestra. Hann bar ísl. bœndum bezta orð fyrir höfðingskap og áreiðanleik að borga, og kvað pá standa langt framar i pví öðrum Skandí-nöfum og enda innfæddum Canada-mönnum. Yoru 3 bændur ísl. nýbúnir að telja honura út 300 doll. hver. Bær Móriz beitir Park River, nijög hýr og snotur, syðst i íslendinga-byggð í Dakóta. pað heitir Walsh hérað; er pá Pembina par norður af, Grand Forks (par seui höfuðborg ríkisins með sama nafni er að myndast) par suður af. Pyrir vestan Walsh heitir Ramsay, par fyrir norðan, og vestur af Pembina, Cavalier. þessi heruð mynda part af hinum frjóvsama Rauðárdal að vestan; má skoða hæðirnar í Pembina sem efstu brúnir pessa dalverpis. Annarfi er slakk-inn viða svo lítill, að hans gætir ekki. pó parf hæðarmunurinn ekki að vera stór til pess, að viðsýni gefizt nóg, par sem hið bera flat-lendi breiðist út fyrir auganu. þar er og ekki mistur ne pokur á sumrum. J>ar er purlendi mikið, en pó vatn nægilegt; skógar annað slag-ið. Fegurst er í Pembína á hæðunum, t. d. hæðin Óðinssæti, svo og við bæinn Mountain. Landslagið svipllkt og í Argyle, en hefaðið miklu stœrra. Landgæði eru par og all-mikil, en pó misjöfn nokkuð; er ekki laust við, að liæðirnar dragi til síi> úrfelli og frost fremur76

Oh Inn marflata prería. Nyrðst og neðst i fylkinu hafa |>jóðverjar sezt að, og var mér sagt, að sá hallij sem peir nåmu, sé feikilega frjór og betri fyrir hveitirækt en íslenclinga-byggðin. Höfðu vorir landnemar gengið par um óbyggt land og kosið heldur hæðirnar, og Olli pvi fjallavaniun heima. Svo má segja, að allt N.-Dakóta ríkið se spáný byggð, og par sem nú er alsett bæjum og býlum, áttu engir beima fyrir 12—14 árum nema úlfar, biruir, Indíánar og óbótamenn. Ná sjást par einung-is vel siðaðir menn.

Eptir ljúffengt Kaupmannahafnar-borðhald með Champagne hjá læknishjónunum, kvöddum við Park Rivor með sinn rósadúskinn hver á brjósti, og ók Móriz aptur með okkur langa leið norður til Garðar. f>ar er fagurt land með breiðum lágöldum, optast skógi vöxnum, og grænar grundir og gullnar hveitiekrur á milli. Er all-staðarlegt að horfa heim til pingmannsins Mr. Eiríks Bergmanns. Liggur stórbýlið Garðar sunnan undir skógaröldu og vellir víðir heim að bænum. |>ar eru stór hús og rikmannlegt, en er pó lítið annað en eitt býli, pvi Bergmann á landið; býr par nokkuð af húsfólki og öðrum verkamönnum, og par er póststofa og skólahús. Hveitiblaða er par mikil og sögunarmylla. Jþar er og laglegasta kirkja byggðarinnar, og befir kostað mikið fé. Mun hún vera viðlíka stór og Bessastaðakirkja77

á Alptanesi. Úr turni hennar er all-víðsýnt, og par er klukka, seni er gersemi. Töluvert af innanskrauti kirkjunnar höfðu ísl. konur gefið með samskotum; er pað almennt meðal landa, að kvennfólkið haíi samtök til hvers-konar félagsskapar, og margar ógiptar stúlkur eru par búnar að gefa töluvert íé til góðra fyrirtrekja, enda er pví ekki að neita, að Araerika pykir einkum vera „frelsisins fimbul-storð" fyrir einhleypt kvennfólk, og pað svo, að sumt er í standandi vandræðum, bvort pað á að offurselja sig hjónastéttinni eða ekki. Skammt frá garði Eiríks bónda er prestssetrið, par sem sóknarpresturinn sera Fr. Bergmann býr; hann å nýtt og prýðilegt hús, en faðir hans á annað minna par hjá, og hafa peir eina jörð báðir. Séra Bergmann og frú hans tóku mér höfðinglega, og par hitti jeg loks fornvini mína séra Jón Bjarnason og Láru konu hans, og varð par fagnaðaríundur. Yar hann nú orðinn furðulega bress og äeygur, enda er hann mjög harður og hraustur að uppruna, en ótrúlega miklar pjáningar hafði hann afborið; varð kona bans löngum að vera ein yfir honum, par eng-iun annars haí'ði hug eða prek tilpess; póttist jeg og sjá nálega eins á henni sem á honum. En nú var allt með gleðibrag i hinu fagra heimkynni. J>ar var og í dviil frú ítanveig Ólafsdóttir Briem, kona Sigtryggs kapteins Jónassonar, göfug koua og rujög sviplík bróður78

sírmm, sfera Valdimar. Hér var jeg som heima og gisti par 3 nætur og páði heimboð ölL kvöldin, fyrst par heima, en kvöldið eptir hjá herra Hermanni Hjálmarssyni frá Húsavík og frú Magneu (systur frú Láru). Jniu búa skammt frá Garðar; keyptu pau par fagran og góðan garð með akri, áhöldum og gripum, og gjörðu oflaust góð kaup, pvi par var harðla blómlegt til að sjá; kváðust pau og una vel hag sinum. J>au eiga raargt barna, sumra vaxinna, og er pað góð eign, ekki siður i Ameriku en annar-staðar, pegar böru cru efnileg. Heitt hafði verið um daginn, en pegar við prestarnir ókura heim um nóttina, var svo mikill nepju-kuldi (preriu-nepja), sem jeg hefl sjaldan fundið meiri. J>ó varð mér ekki uieint við pað. Næsta kvöld var gildi mikið hjá, Mr. Eiriki Bergmann, og kom par fjölmenni; voru par ræðuhöld og iieira til fagnaðar. Í Ameriku drekka prestar sjaldan vin; en pessi kvöldin var h'tid eií.t brugðið út af pvi, enda drakkjeg fyrir hina klerkana báða! E. Bergmann er mikill iyrir ser, ameriskur vel og einarður, mikill vexti; er nafn hans alkunnugt siðan liann varð fyrstur allra íslendinga pingmaður par í landi. Næsta dag var iunnudagur; hafði boð gengið um nýlenduna að halda skyldi skemmtisamkomu vestur á Óðinssæti, svo menn gætu beðið mig að bera kveðjur heim til átt-haganna. Yar jeg fyrst við messu i Eyford79

kirkju; pað er nýtt hús og ekki fullgjört. Var par fjöldi uinnna kominn til kirkju, svo varla varð séð út í'rá kirkjugarðinum fyrir liest-um og vögnuiu. Séra Jóu predikaði og tókst vel, en pað undraði mig, hve lengi — nær pví klukkustuud — liann poldi að standa og prédika, (niest blaðalaust) í pví-likum hita, sem mer fannst vera. Á Eyford býr efnaður bóndi úr Eyjaíirði, Jakob Eyford, og hefir hann nefnt bæ sinn eptir sér — eins og Mr. Hallson sinn bæ par norðar —. Eptir embættið ókuni við og fiest í'olkið upp á skeramtistaðinn; er par hinn fegursti lundur; sézt paðan langt austur fyrir Rauðá í skýru lopti, meir en pingmaiinaleið, mætast par við ána prjú ríki: Minnisota að austan, Dakota að vestan, en Canada (Manitoba) að norðan. Á Oðinssæti voru samankorain mörg hundruð manna. Var 'settur upp ræðupallur, og gekk svo lengi, aö hver ræðan rak aðra. Eru ræðu-böld ein aðalskemmtun landa vorra vestra, íétt eins og peim pyki par meira yndi að niáli voru en oss pvkir hér lieiiua, euda erú par fleiri að tiltölu en hér heiraa færir orðnir i peir'ri íprótt. Má og læra listina par í luudi, pvi Amerikumönnum er í pvi viðbrugð-ið, eiukum pó að halda stuttar tölur með garani og alvöru tviimuðu saman. Einar Hjörleifsson kann af Isleudingum, sem jeg heyrði, einna bezt pá list. Aptur par var Islands minnzt80

mcð miklum innileik og olsku. Og sjálfur var jeg aptur sæmdur með visum, en ekki pekkti jeg peirra höfund. Líka gaf kona ein mer vers, all-vel kvuðin, (húsfrú herra Antons Möllers). Jeg rnælti fyrir rainni nýlendumanna; minntist á að svo langt væru peir komnir, hvað pað spá góðu, enda væri raoira eptir. „Lítið af gulli — sagði jeg — hafið pið hingað á ykkur flutt, en pó gull, mikið gull í ykkur: hinn andlega og sögulega auð vorra átthaga og kynslóðar. Sá arfur gjörði yk"kur út sem að-alsmenn, eigi síður en hina fornu landnáms-menn Tslands, aðalsmenn, sem aldrei mega låta sér nægja að standa aptarlega í fylkingu hinna herlendu, heldur framarlega, helzt fyrir fraraan „skjöldu", par sem jafnan var staður hinna vopndjörl'u forfeðra vorra." Til kvenn-fólksins sagði jeg á pá leið: „Ef pessi hin háa og heita sól signir ykkur með meira frelsi og betri dögum, en hin kaldari sólin liefir signt niæður yðar á Islandi, minnist pá gaðs og peirra; belnið pá fyrir alla peirra ánauð, andvörp og tár, með pví eina, sem bætir fyrir-raunun mamia og pjóða: framförum sannra mennta, og alið pví göfgari sonu og dætur, sem guð blessar botur ykkar móðurásfc með meiri meðölum til að greiða gæfuveg peirra!"

]par á, samkomunni sá jeg ýmsa góðkunn-ingja, jafnvel frændur og íornvini. J>ar var náfrændi minn, Eggert Magnússoii, fyr skip-81

herra í Flatey (sonur Magnúsar í Skáleyjum Einarssonar). Kona hans er Soffía, dóttir séra Friðriks prófasts frá Stað á Reykjanesi († 1840). Bróðir hennar Halldór hélt við-kvæma ræðu, og dróg upp mynd okkar æsku-stöðva og bernskulifs, og hef jeg sjaldan hlýtt á betri tölu, pó ekki væri bún „lærð". þar var æskuvinur rainn Sumarliði gullsmiður úr ísafirði (og frá Kollabúðum), atgjörfismaður snemuia og valnienni. þar var fólk úr ölluru peim sóknura og sreitum, sem jeg hefi í dvalið. í fundarlok heioisótti jeg Mr. Möller og fóður hans, sem eiga garð pann, sem par er næst við. ‡>að er aijög fagur og reisulegur bær og spánnýr; eru peir feðgar atorku- og heiðurs-menn. Eldri hjónunura par haföi pá nýlega verið haldin gullbrúðkaupsminning á mjög fagran og hátíðlegan hátt, eins og pá mátti sjá í "Winnipegblöðunum. Jpví miður ergull-brúðurin alblind, og hann mjög sjóndapur. Uiu kvoldið í myrkri ók jeg með herra ßirni Hall-dórssyni, sem sótti mig, norður á Mountain. Höfðuin við áður pekkst og skrifazt á. J>arvar og fyrirbúian mannfagnaðar, og varð jeg, pð dasáður væri, að taka pátt í honum langt frara á nótt, enda skorti par hvorki fjor ne frjáls-lyndi. Mountain er ofurlitill íslenzkur kaup-staðar. Stýrðu synir Björns par íslenzkum liornspilaflokk, og fór samkoiuan fyrst frara í skólahúsi bæjarins. Fágnaði Björn mér me5

(582

fögrum formála; er hann bæði fræðimaður og frjáls mjög í skoðunum. Loks var gengið til borðs, og síðan til málstofu aptur; voru par nokkrir hinna fremstu íslendinga í Dakota samankomnir, svo sem (auk Björns) peir Brynjúlfssynir, Skapti og Magnús, Daníel Laxdal (hálfbróðir E. Laxdals á Akureyri), ‡>orlákur frá Stóiutjörnum, Barði stúdent Skúlason, o. fi. jþeir Laxdal og Magnús eru málafærzlumenn, en Skapti á nú sæti í öld-ungariði ríkisius (Senator), og er, eins og bróðir hans, allra manna gjöríilogastur. Brynjulf löður peirra fekk jeg ekki að sjá, og sendi jeg houum pvi hjer með kveðju mína, ef hann skyldi beyra eða sjá pessar línur. jpeir bræð-ur, sem og Laxdal, voru mjög ungir, er lið peirra fíutti vestur, eru pvi fremur Amerikumenn en Islendingar i anda, og er pað sýnn skaði um svo ralda drengi. Sezt á peim „hvað verða vill" pegar nýjar kynslóðir vorra ættmanna fara að ljölga í laudiuu. J>vi ef svo fer með hin grænu treu, hvers muu pd tou um hinpurru? En — enginu má süpum renua; lögmáli framsóknar-innar bíjóta allir að hiyða. Hvað yrði úr voru fólki par vestra, ef pað vantaði fyrsta og be^ta hæíilegleika hrers manns (og enda allra skepna, sem eiga að geta lifað), pann, að laga sig eptir landsháttum og pað vitandi vits, með ráði og rækt og elsku á landinu, sem fæðir mann og fóstrar? Og er pað nú pegar hið83

nýja land er ekki rainna kostaland cn Banda-ríkin, með stjórn og stofnunum, vexti og við-gpngi, sem vekur undrun og aðdáuu allra dugandi manna í víðri voröldu. ‡>eir Skapti töluðu röksamlega í pessa stefnu-, kváðust allt um pað geyma helga og heita ræktartilfinning fvrir hinni afskekktu en stór-merkilegu eyju feðra sinna. Hinir eldri í samsætinu, Björn Halldórsson og ‡>orlákur bóndi, játuðu hins-vegar, að mjög væri hugur peirra og hjarta enn bundið við hina forrni átthaga, peir fyrnt-ust peim aldrei, heldur yngdust fyrir peim eptir pvi sem peir sjálfir eltust. Amerika væri að vísu peirn framtíðar- og vonarland eptir punga reynzlu og mikið stríð, seru hinir yngri menn pekktu ekki, en ísland væri land fortíðarinnar, æskunnar og endurminningarinn-ar, og ekki væri pað peini nein ánægjuleg til-hugsun, ef Yestur-fslendingar týndu tungu sinni og söga. ]?á 3tóð upp ungur maður svo að ekki var honum sprottin grön; hann var fríður sínurn, hvatlegur og hvasseygður og all-ófeilian- hann mælti á, enska tungu. Sá jeg þegar, að pir stóð barnhnokki Bandaríkjanua. Hann hóf svo mál sitt, að hann kvað pað vera liinu mesta hleypidóm. goðgá, oða laudráðum Eæst, að dýrka leleg lönd, pótt ættlönd manna heí'ðu verið, í stað pess að unna pví landi, sem maður væri borgari í — unna pví af öllujijarta, anda og luigskoti. „þótt jeg se84

borinn á íslandi", sagði hann, „liuf jeg lítið við pað að virDa, tol jog pað lieuding eina að jeg fæddist par en ekki her, og her hefi jeg aptur og aptur skipt um blóð og merg, hér lærðu fyrst fætur minir að vappa, tunga raín að draga í niál og hcili ininn að hugsa, og hér buðust mér flest pau meðöl og tækifæri, sera fijótast og greiðast framleiða raanusins fulla, proska; her er landið engin stjúpa, sem telur eptir barni sínu hvern bita og sopa, heldur söun móðir, sem telur pað sjálfsagt að barn hennar fái fæði og fóstur samkvæmt pess fyllstu pörfum — sem telur pað sjálfsagt, að pað sé borið racð belguru réttindum til að i'á ókeypis pað uppeldi, sem hvergi truílar og tefur, beldur eflir og eykur alla pess luefileg-leika". J>á boindi hann ræðunni að mer og sagði: „J>ér kváðust ekki vera

móti skaplegum vesturförum frá íslandi. J>ó pað! En per sögðust vilja austurflutninga líka, heim-flutninga héðan. Nei! |>eir sem efni hafa — og pað eru flestir, sem neuuingu hafa — peir fara ekki heira til íslands aptur. Til hvers œttu peir að fara heim? Mundu peir heima gjöra sérlega mikið úr uppflosnuðum vestur-förum? Og hvað eiga peir að sækja til lands, sem stendur í stað, ef pvi fer ekki aptur, til lands, par sem mena um aldur og æfi

„„Sitja á hrosshaus tveir og tveir;"" par seiu menn sifcllt tala og gala, rita og ráð-85

gjora, en vinna ekkcrt, gjöra ekkert! — J>er kváðuðpá dauða, sem gleyraduforfeðrura sinum og sögu Jeg segi: Yjer erum ekki gjörðir til að læra sögu annara, heldur til að slcapa sögu sjálfir, ekki heldur erum vér ákvarðaðir til að tilbiðja forfeðurna. heldur til pess að koma á stofn parfari kynslóð en pessir gömlu vikingar voru. Jeg lasta ekki tungu og bók-menntir íslands, en pó einungis pví að eins og svo lengi, sem sú kunnátta kemur ekki hjá oss í bága við vora miklu alsherjartungu og pjóðmenning hér vestan liafs." Að endingu sagði hann eitthvað á pessa leið; ,.]pegar hinn darwinski stefnuháttur pjóðanna, að læra að sigra náttúruna, eða réttara sagt, ha.ga sér samkvæmt hennar hendingum, pegar hann tekur að dofna, bendir innri ósigrandi hvöt peim til að breyta um bústaði og losa sig úr læðingi heimsku og hloypidóma, ómennsku og arfgengins vana. ]?essi guðdómlega eðlis-hvöt er viðhald lífs og sögu pjóðanna. Og pessi hreyfing kennir peim, að hvervetna sé föðurland hinna frjálsu; en sá, sem helzt kýs að hýrast heima, og lifa á annara sveita, heldur en breyta dáðlausri venju, hann er horn-ungur og lifir og deyr, sem „„præll fastur á

fótum""--|>ið eigið ekki að „„låta pá, í

poka"", sem héðan koma heini til a5 lýsa vorum landkostum, heldur anza peiin með rök-semdum. Og bezt gjörðuð pið, ef pið ömuðust86

við engum peim, sem vilja bjarga sér á eigin ábyrgð og kostnað. Enginn veit að hverju barni gagn verður. Sú er mín trú, að peir, sem eiga eptir að endurreisa ísland, ei pess rerður auðið, verði fremur íslendingar vestan hafs en austan!" Að pessu var mikill rómur gl'ör. Hinn aldni og spaki ‡>orlákur (úr sveit f>orgeirs Ljósvetningagoða) stóð nú upp og skoraði á mig, að verða likur |>orgeiri og „miðla svo málum, að hvorirtveggji mætti vel við una". Jeg kvaðst hafa vilja til að freista pess, en sagðist pó vita, að miðlunarmenn yrðu optast misskildir og nefndir „miðlungsmenn", og frá skildir öllum atkvieðamönnum sinnar aldar, eins peim, sem berðist í broddi fylk-ingar, og peim, sem verðist með hinum, sem sótt væri að baki. J>ví — sagðijeg — í fram-sóknarstríði pjóðanna eru margir, sem vega að baki og vilja koma í opna skjöldu, en við peim pavf lika að horfa. En — nú var komin miðnótt og pótti mér heilsunnar vegna mál að leita hvíldar. Lauk svo einum hiuum minni-legasta degi, sem jeg hefi lifað. Yaktijegalla pá nótt sakir ofpreytu og —hugsana, sem hér eru ekki skrifuðar. Daginn eptir ók jeg til vinar rníns, Björns Halldórssonar, sem átti garð par skammt frá í djúpum skógarlundi; skírði jeg par dótturbarn hans. Skömmu síðar komu prestsbjónin frá Garðar og frú Jónasson og voru að fylgja á leið sfcra Jóui87

JBjarnasyni og konu hans, sem ætluðu heim, og svo að kveðja mig. Kvaddi jeg pvi vini mína á Mountain, sem eptir voru, og heldum við síðan um kvöldið all-langa leið norður að Hallson. Gistum við sera Jón par hjá hálf-bróður hans, Nikulási. flami á par blómlegan búgarð, og frjórra land en hjá honum hygg jeg að jeg hafi hvergi séð. Mr. Nikulás minnti mig á vora fornu góðu landuámsmenn. Hann er hníginn að aldri, eD beinn og hinn ernasti, manna mestur og sterkastur,, mikill að yfirlitum, brúnamikill, snoðinn og góðmannlegur. Yar auðfundið, að honum pótfi all-vænt um sáð-land sitt, maturtagarð og öll landgæði. Yel leizt mér og á konu hans og börn. Séra Bergmann skírði barn i húsi Mr. Hallsons. Hann er bróðir Jóns prófasts, er síðast pjónaði Glaumbæ, og er par elztur landnemi. Hann er og mikill vexti og álitlegur. ^ar norður i byggð-inni sýndist mér öllu frjórra land en sunnar, og skóglendið meira. Kirkjur eru 5 reistar í Norður-Dakóta, pjónaði séra Bergmann peim öllum allt til pess að sera Jónas hinn nývígði tók við nyrðstu söfnuðunum í suraar. Ekki lieyrði jeg til hinna nývígðu, né heldur til sera Bergmanns. Er hnnn maður gáfaður og vel máli farinn, hinn mesti íihugamaður um kirkju-legar framfarir í lika stefnu og klerkar par i landi, og pykir peim, sem frelsinu hrósa i trüarefnum, hann vera nokkuð norskuskotinn68

og strangur. En fyrir almenning raun hann vera nýtur og uppbyggilegur kennimaður. Sami maðurinn á aldrei við alla, hafi hann sjálfur prek og ákveðnar skoðanir, og sýnir pað sig daglega í Ameriku, par sem allt er kappsmál,

fán haldið leyndu og allt berst í ákafa. Lydd-um og orðsjúkum mönnum er par lífsháski búinn. Skainmbyssu-„.fiktið" og smábrösurnar í Ivaliforníu herna um árið, og sem eldir eptir af í hinu mikla landi, það er að skoða sera bernskulegt forspil eða hundagelt áður en „tekið er til", — áður en byrjar hið volduga lýð-frelsisstríð, hin rniklu Hjaðningavíg, par sem allir berjast og allir falla, en — rísa óðara upp aptur! Seint um kvöldið kvaddi jeg hið elsku-verða fólk frá Garðar, sem ók heim um nótt-iua. Se jeg það líklega aldrei framar, og ef til vill enga pá, seni inér tóku svo vel í hinu fagra Dakóta. Allra manna samvistir í pessurn heimi enda — í nótt, og pegar bezt lœtur í stj örnuljósi, eins og pá. En góðir sam-fundir, pó stuttir séu, bera oss samt ávexti, gjöra hjartað blítt og trútt og auðga andann, fegra alla tilveruna, og venja menn við hennar störu skapadóma, sem enginn má umflýja, og pví ber að pola með kyrð og rósemi.

Næsta dag snemma ókum við til járn-brautarinnar, tveggja eða priggja stunda veg; var það enn fagurt land að sjá, öldur og fietir og hvervetna byggð og hveitiakrar. Stóð69

pá yfir uppskeran. Daníel Laxdal náði mér miðja vega, og bauð mér að reyna hesta sína. Settist jeg í kerru hans, og pótti mér nóg um, er klárar hans tóku til skriðs. Voru það villi-hestar tveir Testan úr Montana, er hann hafði tamið ; þykja peir all-ótryggir og vanstilltir. Er Mr. Laxdal manna bezt hestfær, eins og peir frændur fleiri. Kvaðst hann borga 600 kr. um árið fyrir eldi og noztur peirra tveggja gæðinga. Eru slíkir hestar daglega stroknir og sápupveguir, einkum ef peir hafa svitnað og kalt er veður, prí pótt sterkir séu, eru peir afar-viðkrœmir ef peir mæta misjafnri meðferð. A einum stað steig annar hesturinn yfir tauminn ; varð hræddur og sló bart og títt í vagninn. Læddist Laxdal pá niður og fékk stilltan hcstinn áður skaði varð að. Sá jeg að hesturian liafði rennsvitnað að aptan og fram á miðju. Kvaðst L. geta ekið með peim 2 pingmannaleiðir fram og aptur i rykk, ef á lægi. En ekki eru það allir, sem vilja fást við slíka fáka.

Burtför mín frá Winnipeg

í Winnipeg dvaldi jeg einungis 2 nætur eptir Dakóta-ferðina. Gisti jeg pá hjá peim séra J. B. Eiga pau sjálf mjög pægilegt og fallegt hús, Jeg varð vegna tímans að afpakka boð Ný-Islendinga og annara og búast sem fyrst. ]?ó hitti jeg ýmsa málsmetandi menn.90

som ýmislegt sögðu mer úr peim nýlendum, sem jeg kom ekki til. En af pví nienn geta annarstaðar fræðst um nýbyggða- og safnaða-skipan landa vorra vestan hafs, sleppi jeg að segja frá öðrum byggðarlögum en peim, sem jeg sá. Nýbyggðina í Minnisota auðnaðist mér ekki að sjá, eins og áður er sagt, en það sögðu rnör kunnugir, að hvergi í Ameriku raundu ísl. bændur koranir betur í Teg en par, og byggingar surara par væru mjög fagrar og kostulegar. J>ar or mjög frjótt land vestur á preríunum, og frost koma par ekki á sumrum, en áhlaups-byljir geta par komið, og opt er par mjög heitt á sumrura. f>ar er prestur sera Steingr. porláksson (frá Stóru-Tjörnum, og bróðir séra Páls sál.). -

Daginn, sem jeg kom til AVinnipeg frá Dakóta, gaf jeg saman ung og efnileg hjón frá Nýja-íslandi: Mr. Jóhannes Sigurðsson, kaup-mann frá Hnausum, og Miss Jporbjörgu Jóns-dóttur. Var vígsluræðan rýr (upp úr mér), en vígslutollur ríflegur. Jog hafði látið Jón Ól-afsson vita, að jeg vildi gjarnan sjá hans flokks-menn áður en jeg færi, en pá yrði peir að boða mig á samkomu. En áður en það boð kom, fékk jeg boð að mæta um kvöldið í sal Gruðm. kaupmanns Jónssonar. Yissi jeg ekki annað en að par kæmi saman fólk af beggja hálfu og hugsaði, að menn hefði sætzt á að låta mín ekki getið ne mig gjalda í neinu á-91

greiniugs síns; póttist jeg hafa komið svo fram, að hvorirtveggji mætti við svo búið una, enda var jeg pá að lcysa mínar landfestar. J>ó var mér sagt eptir sarakorauna, að Hcimskringlu-menn helði par fáir verið, og feil raer illa. ‡>ó kvaddi jeg pá afpeim, sem jeg sá og pekkti, daginn sem jeg fór. Annars fór samkoman hið bezta franu; voru par helztir ræðumenn, séra Jón, séra Hafsteinn og Einar Hjörleifsson, en Mr. Á. Eriðrikson stýrði fundinum. Lýstu peir enn með mörgum og hjartnremum orðum hiuu helga sambandi milli allra góðra Yestur-og Austur-Islendinga, báðu mig bera hugheii-ar óskir heim, og árnuðu mér sjálfum allra heilla. £>ann dag afhenti Einar Hjörleiísson mér gullbúinn stafsprota og par með kveðju frá nokkrum ísl. konura. Yar það góður grip-ur; purfti jeg ekki lengur að öfunda séra J. B., sem á líkan staf og likt tilkominn. Jeg kvaddi Winnipeg um kvöldið binn 18. ágúst, og fjlgdu niér ýmsir menn og konur pó áliðið væri og rigning. Lagði lestin ekki af stað fyr en um kl. 12, og

gekk jeg þá til sængur i vagninum. Næsta dag lá við sjálft að jeg hefði sljs. Við stöð eina á eyðimörkinni varð mer ásarat öðr-nm reikað spölkorn frá lestinni, en óðara en varði skreið hún á stað, og er jeg greip í járn-ið og vildi snarast upp á ragnriðið, missti jeg taksins og hrökk frá. Jeg vildi ekki rerða eptir og reð til við nœsta vagn og fór á sömu92

1 eið ; við priðja vngn reyndi jpg enn, ng var ofdirfzka, pví stórskrið var komið á lestina. Hrökk jcg pá svo hart frá, að' jeg kastaðist niður milli vagnsins og stéttarinnar, en pað hlifði, að bil var milli, og straukst lestin fram lijá og snart mig ekki, en þó marðist jeg nokk-uð við fallið. Jeg stóð upp og horfði lönguin augum eptir lestinni og póttist illa kominn. Nokkrir menn stóðu par hjá mér. Sögðu peir mig vel hafa sloppið, en kváðu mig verða að bíða til morguns. Jeg rildi pá senda hrað-skeyti um farangur minn og gekk inn í frétta-práðarbús, cr par stóð hjá, en í sama bili kom lestin aptur á bak að stöðinni, og hljóp jeg óð-ara út í hana. Flykktist fólk að mer og pótt-ist hafa heimt mig úr helju. Svartur pjónn bar mer vinbikar, og gladdi jeg hann riflega fyrir pað að skilnaði. Get jeg pessa öðrum til varúðar. Eru vagnastjórar mjög óvarkárir í Amoriku, og blása ekki til brottlögu nema stundum, en pó eru ferðamenn par enn pá ó-kærnari að stíga út og stökkva svo inn aptur á síðasta augnabliki. Hugðist jeg líka hafa lært pá list, on pó kom petta fyrir, og or sjald-an of varlega farið, sízt í ókunnu landi. Sið-an gjörðist ekkert til tíðinda unz við konium til Montreal. Vildi jeg gjarnan aptur fá fría ferð jfir hafið, en í fyrstu gekk pað ógreitt.. Hr. Wilhelm Paulson bafði fengið raer ineð-mælisbref til eins línustjórans, cn optir langa'J3

bið i hans sölum, vísaði hann mer á bug og kvað næst, að Beaver-línan beindi ferð niina. .Teg spurði þá" hennar forstjóra uppi. Hann var fjarverandi, en gamall og góður Skoti, yfirgjaldkeri línunnar, tók mér vel og átti lengi tal við mig.- Lauk svo, að liann gaf mer farbréf til Líverpól. Hann hét Mr. Ramsay; hafði hann ungur og félítill kvatt ættjörðu sína, unnið lengi baki brotnu og var nú auðmaður orðinn. Hann bauð mer heim til sin um kvöld-ið, par sem liann átti garð mikinn suður með fellinu. Hann sýndi mér og helztu skrauthýsi og höfuðkirkjur borgarinnar, og fannst mér mikið um. Er hán að visu líkari enskum borgum en flestir bæir vestan hafs, með bugð-ótt stræti og ekki breið, en fogurð og skraut bygginganna er framúrskarandi. Jeg gisti á lióteli pví, er Albion heitir. 011 hótel í Ame-riku hafa stóran forsal pegar inn er komið, og er „diskur" eða búðarborð gegnt dyruin. J>ar ritar maður nafn sitt og borgar reikninga sína. Borðsalurinn er ýmist par í grend við, opt ákaflega stór og skrautlegur, ellegar á 1. sal. En á aðra hönd pegar inn er gengið er drykkjustofan og drekka menn par standandi við borðið, en annarstaðar er lítið farið með vín, og sjaldan með máltíðum. J>ar er og ekki sem í Evrópu samsætisborð (Table d'hðte), held-nr smáborð handa 1, 2 eða 4. Ä 1. sal eru skrautstofur og samsætissulur kvenna, endq94

mæta par kíirlmenn líka, ef peir pekkja ein-hvern eða einhverja, og stundum er par stofn-að til dansleiks. Er mjög frjálslegt samlif nianna og kvenna á slíkum stöðum og opt búa sömu lijón par árum saman, og pykja hótel-vistir ódýrari en búskapur ser; veldur pvi hið dýra hjáahald. Næturgisting á góðum hótelum kostur frá 2—5 dollara, ef borðað er kvöld og morgun. Eru sum hótel svo stór að pan rúma mörg hundruð gesta, hin stærstu um 1000, pó hver hafi svefnherbergi fyrir sig. flverju góðu hóteli fylgir baðhús, biljarðstofa, rakarastofa, o. fl. til pæginda. — Eptir hálfs annars dags bið lagði jeg at' stað frá Montreal með Bifur-línu skipinu „Lake Winnipeg", og héldum niður eptir fljótínu i fögru veðri. Skipstjóri hét Herrimann, ungur maður og glaðlegur. Farpegar á 1. káetu voru fáir, en nálægt 500 nauta stóð á pilfari og póttu oss engir prifa-gestir, enda voru básar peirra og flór látið ósnert alla leiðina. Yar pvi all-illt lopt á skipinu pegar logn var. Brjáluð Gyðingastúlka var á 2. káetu, vissi enginn um hana fyr en við vorum komnir af stað. Hafði uunustiun brugðið við hana. Yar henni á daginn lofað að ærslast hvar hún vildi, en vöktuð var hún um nætur. Hún ruglaði við okkur alla til skiptis og kom fram par sem minnst varði, syngjandi og bullandi; gekk svo alla leiðina, en að lokum varð hún mjög preytandi. Yið95

fengum hægviðri og poku, nema einn dag, pá fórum við fram hjá Nýfundnalandi, en höfðura Labrador á bakborða. Myrkur var komið og jakar úr borgarís glórðu hér og hvar, pegar liann hvessti og gjörði afspyrnu-veður. Jeg rar pá einn á fiakki; sagði skipstjóri, að petta væri hættulegasti kaíli vegarins, en bráðura yrði leiðiu hreiu fyrir landi og ís, og pá mætti hann hvessa. Eu pá hægði, og höfðum við úr pví bezta veður. A 10. degi sáum við um kvöldið ritaljós á Irlandi. Urðu pá allir glað-ir, og peir sera pað vildu, fengu ser í staupinu. A slikum skipum drekka menn ekki fyrir ekk-ert; kostar eitt ölglas heila krónu, og annað eptir pví. írland er fjöllótt að norðan allt suður fyrir Belfast, víða jafnar hliðar og fríttland. par er stutt yfir til Skotlands; er pað og fjöll-ótt land

og Togskorið mjög (Skotlands firðir). J>egar dró suður undir eyna Mön, breikkar hafið írska en strendur hverfa. Mön er alkunn úr sögunum : „Görðo seims með sverðe j sverðleik á Man skerðer" segir Hall-freyðr. Aptur urn Ólaf Tryggvason. Mön er hátt land, nálega ein þingmannaleið á lengd, en mjó. Manarkálfur (Calve of Man) beitir hár bólmi við suðurhorn eyjarinnar. Blöstu par við „bleikir akrar og slegiu tún", en böfuðborgina, Douglas, sáum við álengdar austur á eyjunni þegar dróg na;r Líverpól, eítthvað 18—20 vikur í suður frá Möri, fjölg-102

uðu skipin; sá dagarvar burtfarardagur fleiri skipa en endrarnær, af pví ,.Sabbatsdagur" Euglendinga var pá að morgai. Svo telzt til að 150 skip leggi út frá borginni á degi hverjum, eða nálægt 55 pús. skipa á árina. J>ar mátti sjá margan fríðan dreka, en okki var landsýnið bjart að venju. Skaðar mjög fegurð Englands hið petta mistur, pokur og kolalopt, einkum í grend við stórborgirnar, sem par er daglegt brauð. Fáeiu orð liér uœ liinn mikla höfuðstað Líverpól Einnig hann hefir náð mestum vexti og viðgarigi á pessari öld. Um aldamótin 1800 hafði borgin pó rúin-ar 80 pús íbúa, en nú hefir hún langt yfir hálfa raillíón, og nieira en heila milíón, sé Birken-head (á bökkura Merseyíljótsins hinu megin) og aðrar undirborgír lagðar við. Líverpól er mesta stórvirkjaborg heimsins með Lundúnura, New-York og Chicago. Einkum vekja liaínar-„dokkurnar" allra undrun, sem skyn bera ä. Er fyrst ströndin og íljótsbakkinn hlaðið upp með slettum steinstettum 9 enslc. milur upp með endilangri borginni, en par við byggðar 50 stærri og minni „dokkur" eða kvíar, flestar meistaraverk hið mesta. Aðrar 30 kvíar eru Birkenheads megin. Upp af höfninni breikkar åin, sem fyrst er tæpur mílufjórðungur, og verður meir en vika. J>ar eru grynningar miklar og vandfarið um fjöru, enda hafa Eng-lendingar varið 25 mill, punda sterling til97

viðgjörðar á fljóti pessu, sera pó er enn ekki stórskipum fært nema rúmar 7 vikur. Um flæði er pað 22 fetum dýpra en uui fjöru; hverfur pá hið mikla útfiri og myndast hafsjór fvrir auganu. ]?egar upp eptir keraur, tekur við hinn frægi Manchester-skipaskurður. Hann er prídyraður — hver kistan (lock, „slúsa") upp frá annari — svo hann má vatni halda pegar tíII. Er sá dyraumbúnaður eitt af hug-vitsstórvirkjum heiinsins. Hurðvængir peir, sem loka stærsta hliðinu, vega 500 tons, og ganga pó eins liðugt og lambhúshurð! Auk poss eru hafðar aðrar hurðir enn traustari til að varna storniflóðum. þá eru járnbrautargöngin undir ánni eitt af stórsiuiðum borgarinnar; pau eru 3—4 pús. fet á lengd. Yerzlunin í Líverpól er rajög risavaxin, og pað svo, að pótt jeg til-færði nokkrar tölur pví til sönnun&r, skilja fáir lesendur njinir hvað pærpýða. Hið onska auðsvald er miklu meira en svo að vör getum haft nokkra ljósa hugmynd um slík verzlunarvið-skipti, sem par eru. Glysstræti og stórhýsi eru par hundruðum saman. Helztu byggingar eru: borgarböllin (Tcnvn Hall); hin fagra og fræga Georgsköll; The Walker Art (Jallery; Picton Reading Room; Public Library o. tí. Eru öll pcssi stórliýsi helguð listum og bók-fræði. pá er og Kauphöllin (Excliange), Toll-húsið og Farmannahiisið (Sailor's Hoine). par gista rnörg púsund sjóinanna gefins úrlega;98

gefur hvert stórskip, sem fer yfir Atlanzhaf, samskotafe til kostnaðar pess. Mjög skemmir kolarykið lán ótölulegu skrautliýsi og musteri Englands, bæði utan og innan, og blekkir alla liti fyrir auganu. Kirkjur i pessari borg eru bæði miklar og margar, en ekki hafði jeg tima til að skoða nema 2 eða 3. Brautarskálinn í Limestræti (= læm) er helzta járnbramtar-stöð borgarinnar, og er risavaxinn mjög; svo eru og helztu hótelin. Erá Líverpól til Lund-úna eru 200 enskar milur (8 pingm.leiðir); fer gufuvagninn pann veg opt á dag og venjulega á bálfri fimmtu kl.stund (hraðtog 3 — 4 tíma), en til Edinborgar er vegurinn 1 pingmannaleið longri; tekur sú ferð að 6 stundum, pvi par er seinfarnara. A liverju lifir Liverpól? Fyrst og fremst, eins og aðrar borgir, A loptinu; en par eð benni nægir pað ekki, krœkir hún i 50 pús. sekki af baðmull frá Ameriku á viku hverri; en ekki lifa allir á pví, og ber liún pvi öll reiðinnar kynstur á land af kornvöru, kvikfénaði, irskum varningi, timbri, tóbaki, bris-grjónum, kaffi, sykri, víni, litarefni, silki, á-vöxtum o. fl. Hún flytur út mestallan hinn botnlausa iðnaðarvarning úr héruðunum Lan-caster-, Stafford-, York- og Ches skirum. Jeg j ók pegar um nóttina eptir að jeg steig á land til Lundúna, og kom par snemma morguns. A peirri leið eru engar stórborgir; Stafford, Rugby og Northhamton eru hinar helztu, og99

hiu stórauðuga Birmingham er par litiu vestar en miðja vega. Alla pá leið er England fiat-lent, en frjótt og fagurt. Er hinn stóri Bristols-fjörður fyrst, í vestur frá Lundúnum, en siðan hið fjöllótta og raikla furstadæmi Wales (Bret-land), sem nær norður að Øngulsoy og fióanum viðChester; er pá skammt tilLiverpól. Flest-ar og mestar eru borgirnar austur af Liverpól eða norður um mitt landið, og par eru borgirnar Manchester, Sheffield, Leeds og

Hull; norðar niiklu er hin forna Jórvík (York), en nyrðst er Newcastle að austan. Á suðurströnd landsins við kanalinu er og fjöldi borga og pær dýrar og skrautlegar, en miklu niinui verzlun er peim megin, enda verða Lundúnir ein-hverja ögn upp að súpa.

Jeg dvaldi rúma 4 daga í London hjá mínu góða vinafólki, prestshjónunum R. típears. J>ótt hann sé enginn auðraaður, er hann frægur fyrir pegnskap sinn, eins og J>orgils á Reykja-hólum, sem bélt Gretti; gista jafnan hjá hon-uni merkir langferðamenn, einkurn frá Ameriku svo og Hindúar frá Indlandi. Hefi jeg pví sofið i sama herbergi og heiðnir Brahmínar, t. d. hinn frægi Hindúapostuli Chesub Ghunder Sen, og eptirraaður hans Mosoomdar, er heimsótti Trúarpingið i Chicago í sumar. Mr. Spears er nú frœgur maður fyrir lærdóra, dugnað, framkvæmd og manngæzku. Betur siðaðan eða kristinn mann hefi jeg aldrei pekkt. Hann

7*100

var á krunum yfirsekriteri hins brezlca Uuitara-félags; óx pau árin stórum tala kirkna pess flokks, en síðan kefir peim stórum fækkað. Hann er forii Mepódisti, og pykja honum sumir hinir leiðandi trúbræðurÚnitara æði-frí-geðja og lausir i bifiiutrúnni. f>6 er hann hinn frjålslyndasti raaður og ritar eitthvert hið bezta kirkjublað („The Ohristian Life"), sem jeg pekki; kaupa pað kierkar höpum saman i hinum ströngustu trüarflokkum. Mr. Spears er nü vel hálfsjötugur, en allra manna ernast-ur. Kona hans og bürn voru við sjóböð er jeg kom. J>ar heitir Margate, austur við haf fyrir sunnan Tempsármynni. ókum við pangað xiæsta dag eptir. Má par sjá gott sýnishorn af sumarpjóðlíii Lundúnaborgar. Margate og Ramsgate eru litlar meðalborgir, sem nálega eingöngu lifa af sjóböðum og greiðasölu. Er par mjög fagurt og loptslagið við hafið hið heilnæmasta. Sjávarbakkarnir eru all-há, hvít krítarklif, alsett fögrum gangstigum, en af enda og á niðri í fjörunni úir og gruir af börnum, sem par er lofað að vazla og velta sér í poll-unum; og er trauðla meiri gleði í himnaríki en peirra fognuður á pessum fjðrum. Utar eru vagnaraðir, sem færðir eru upp og fram með sjávarföllum; eru peir sem hús i lögun, og taka pcir sem vilja bað par inui. Allir hafa suudklæði; konur baða ser. |>essar baðvistir mcðun heitast er í borginui pykja par jafut101

til skemmtunar som heilsubótar. Um kvöldið ókum við heim, og var ekki heim komið pó komið væri að borgarjaðrinum að austan, pví Mr. Spears bjó á hæð þeirri nyrzt í Limdún-um, sem Highgate heitir. ‡>ykir paðan, og frá Hampstead-híeðinni par suður af, einna fegurst útsýui í borginni. Hús Mr. Spears er fornt höfðingjasetur frá Krómwells dögum; bjó mág-ur Kr. einn par í næsta húsi við; var pá Highgate langt norður í sveit. Hús Mr. Spears heitir Arundel-hús; par andaðist 1626 hinn lærði og frægi kanslari Englands, Bacon lá-varður. J>ar á hæðunum er lystigarður, og víða gnæía par himinhá tré í aldingörðum, suni frá Krómwells tíð eða eldri. Eyrsta kvöldið helt jeg dálítinn fyrirlestur á ensku um Island og pess sögu; gjörðn menn góðan róm að honum, pótt liinn enski framburður falli nier árallt nokkuð stirt. Flestum ókunn-ugum finnst mikið um sögu vorrar eyju — að hún skuli nokkur vera, og svo afskekktur hólmi eiga fornar og „stoltar" bókmenntir. En margt af enskri alpýðu hugsar í sínu hjarta, að við séum sama fóllc og Grænlend-ingar, og lifum á selspiki og— kertisstubbum! Væri engin vanpörf á, að gáfaðir íslendingar, sem væru ensku måli vel vaxnir, reyndi til að auka kynni Englendinga um land vort með hagfelldum fræðilestrum.

Jeg pykist nú orðinn nokkuð til hlýtar102

kunnugur Lundúnaborg, og cnn fór jeg vflr hina merkustu kafla hennar, og onn yar Mr. Spears sjálfur mér til leiðsagnar. En samt sem áður veitti mér ekki af, ef jeg skyldi eiga að útmála pá Babylon, að ákalla fyrst að forn-um sið allan Olympus og par á eptir Parnass-us mér til fylgis og fulltingis. En — pað er satt, hinir gömlu guðir og gyðjur hafa nóg að gjöra; pað er bezt að peir láti okkur hiua eldri gullinkamba og fimbul-famba upp á okkar eindæmi, og bæn-heyri heldur hin yngri skáldin, pví par er meira um að vera, par sem öll sú legió æð-ir yfir á arnarvængjum ! — Lundúnaborg tolur nú 5 mill. íbúa. Um hana ná forstaðir viða langt út á landsbyggð, og er pó pað, sem talið er með borginni, yfir 40 ensk. mílur að hring-máli. En pessi víðátta hefir minni pýðingu fyrir brautavefinn, sem pekur borgina. Fer gufulest frá hverri einustu stöð á 5 mínútna fresti á stað umhverfis Lundúni, ýmist ofan jarðar eða undir húsum og strætum. Og hver-vetna pvert og endilangt pjóta, blistra, bruna og duna eimvagnarnir um pessa borg, yfir og undir. Nálægt 900 lestir fara til og frá einni stöðinni á dag! Sjaldan eða aldrei verða par stórslys, svo meistaralega byggja menn regina, og aðgreina með göngum, brúm, bogum og

millivеggjum hverja braut frá annari, en blæj-ur og blísturhljóð segja ávallt til í tíma ef103

forföll eða hindrun kemur fyrir. Jeg skoðaði enn einusinni liinar niiklu kirkjur, Páls og "Westminster; sömuleiðis Krystalshöllina. J>ar heflr aldingarðurinn tekið stakkaskiptum síðan 1871,er jeg sá hann fyrst. Eru nú trjálundir hans og laufskálar orðnir háir og ljómandi fagrir. I höllinni var nú fátt manna, ollu pví vist baðvistirnar og aðrar útistöður manna. Eru JBretar mjög á flakki um pað leyti árs, enda nægir peim senn ekki heimur pessi nema til hálfs. Í höllinni voru til sýnis 50 svonefndar skjaldmeyjar sunnan frá Dahomy i Afriku; voru pær úr varðsveitum svertingjakonungs par. ‡>ær voru lágar vexti, en fremur preklegar, furðu ófríðar; grimmlegar á svip, og eins og miðja vega milli apynja og mannlegra kvenna. |>ær voru sótmórauðar å hörundslit, berfættar og berar á bringu, í stuttbrókum og stuttum kirtlum viðum, svörtum og grænbryddum að neðan, og með kögri. Perlubönd báru pær um háls; þær voru girtar sverðum og létu all-ólmlega. Sýndu pær vígfimi og hætti sina i hernaði. Fór peim pað fimlega og vasklega, en mer stóð pó viðbjóður af öllu saman, og fór út í miðjum leiknum. Sé vort kyn allt af einum ættstofni, hafa ættmenn slikra skepna orðið æði-afskiptir. Hryllir ílesta enn meira við að sjá athæfi villimanna en apanna, og sé-um vér bræður Eldeyjarmannauna, er oss litil læging að telja apana tengdamenn vora! Er110

hvert mál sem pað er virt. Hið merkasta, sem jeg nú skoðaði i L., var pjóðfræðisafnið raikla í Brittish Museum. Hafði jeg aldrei komið upp 1 hina víðu efri sali p'essarar risa-vöxnu byggingar. f>ar er sü firn af gripum allra pjóða eldriogyngri samankomin, að varla endist einn maður til að skoða pau söfn öll. Hafa enskir sjóforingjar ávallt síðan safnið var byggt,* látið greipar sópa um ðll lðnd, og selt síðnn eða gefið gripina pjóðstofnun pessari, sem enskir menn eru mjög hreyknir af. A egypzka safninu sá jeg Sesostris (Ramses 2.) í kistu sinni; var karl að sjá sem hann hefði sálast fyrir hálfura mánuði úr kvefi, en hann hefir nú hvílt í kistunni rúm 5 pús. ár! J>ar var og likkista Kleopötru drottningar úr hvit-leitu, sköfnu tré og lik vöggu eða skríni í lag-inu. J>ar uppi má sjá otiæti og sundurgerð liinna fornu B.ómverja; listasraíði og undra-hagleik Grikkja, hið stór-drembilega Austur-lunda-skraut Assýra og Persa, og hið fáránlega Austur-Asíu Völundarsmíði. Bóka- og hand-ritasafn þessarar stofnunar er nú talið á 3. millión — stærra en safuið í Louvre-höllinni í Paris. Hver sem hefir séð British Museum

* Jaað var stofnað á síðari hluta 18. aldar, af Jósef Banks, er fvrstur enskra höfðingja heimsótti Island (1770-80), kynntist Ólafi stiptamtm., og var landinu síðar til liðs og hjálpar 1808. Var hann liið mesta stórmenni.105

og allt sem par er inni, lestrarsalinn fagril og alla bygginguna sjálfa, hann hetir mikið séð af verkum mannanna, og meir en Krystals-höllina, Pálskirkju og Westminster samanlagt. Kirkjum í Lundünum vita menn trauðla tölu á, eins og sagt er í sögunum um kirkjurnar i Rómaborg. Er niælt, að pær sjeu eitthvað yfir púsund. En merkilegt er, hvað pess fjölda gætir par litið, enda pykir tiltölulega litið til peirra koma, að fráteknum hinum nefndu höf-uðmusterum. Pálskirkjan er langhæst hús á Englandi, undir pak eða hvolf 400 fet, og næst Peturskirkjunni i Pómaborg hið hæsta i heimi. Eins og kunnugt er eiga Lundúnir marga og iuikla lystigarða og ættu peir, sem Tilja kynna sér pessa miklu borg, sizt peim að gleyma. Fyrir uorðan ána eru kunnastir James Park, Regent Park (með dýragarðinum), og hinn frægi Hyde (hæd) Park. Fyrir sunnan ána er undur-fagur lystigarður, sem Kewgarden heitir, og skammt paðan hinir miklu lystiskög-ar Pichmond og Wimbledon; marga tieiri mætti nefna. Kalla meun pessa garða lungu Lundúnaborgar, pvi án peirra yrði ibúum slíkra borga pröngt um andann. Er borgin víða ljót og leiðinleg og loptslag einatt mjög saggasamt, sólarlítið opt um haust og vetur. Hin svo nefnda Lundüna-poka er alræmd; er hün svo svört a5 alkveykja parf á strætum um hådegi, pvi enginn sér handaskil. Southark106

(Súðvirki kölluðu fornmenn pað) heitir fyrir sunnan Tempsá, og er það óásjálegasti blut-inn. Hinum meginhlutanum fyrir norðan ána er skipt í Austur-L., Norður-L., City og Westend. Er í City, eins og kunnugter, mest og óðast kaupskaparliiið, en sá hlutinn er ná-lega mannlaus á kvöldin, pegar búðum og skrifstofum er lokað. |>ar er hinn frægi Lund-únabanki og önnur viðskipta-stórhýsi; renna paðan helztu meginstræti borgarinnar langar leiðir; má af peim rata hvert sem fara skal þeim megin árinnar um borgina. En í Yestur-ondanum er Westminster og par hjá hiö vold-uga Parlamentshús, og par norður og restur af býr aðall og annað stórmenni um allar götur, einkum umhverfis „parkana", og vestur fyrir Kensington, sem er afarmikið hverfi. Alkunn-ust stræti í Lundúnum eru Piccadilly og Oxford stræti, sitt hvoru megin við Hyde Park, svo og Strand og Holborn, sem

liggja inn að City. í Suður-Kensington er Albertshöll-in, sýningarbyggingar og stórauðugt Museura eða gripasafn. En í Kensington garði er hið skrautlega Alberts minnismerki o. fi. Nálægt Westminster eru flest hin frægustu stórhýsi rikis og landstjórnar, sem ofiangt er her að telja; par er Hvíta Höllin (White Hall), par sem Karl 1. var bálshöggvinn á palli úti fyrir hans eigin hallargluggum, en í grenndinni eru ýmsar aðrar ballir, sem kenndar eru við kon-107

unga og önnur stórmenni, og flestar lágar og oriüegar sýnum, pó frægar séa í sögunni. I Strandstræti eru flest leikhús Lundünaborgar. Mansion House (borgmeistara-hüllin forna) er i City. Hinn ramforni kastali Tower (turninn) er fornraenjahús rikisins. Merkilegt er, hve fá skrauthýsi sjást í L. frá pessari öld. En pótt byggingar par seu ungar, sýnast pær flestar eldri en pær eru, sakir kolaloptsins, sem grúfir optast yfir borginni. Hefir pví borgin einhvern dímman, ófagran, fornan svip i flestra aðkomandi manna augum. Hitt finna menu pó ekki síður — einkum nærri Westminster, eða í grennd við Bankann, bjá Tower, i Yest-urencla og víðar, — að her er fyrir augunum höfuðborg heimsins ríkustu og auðugustu pjóð-ar, og undir eins langstærsta borg heimsins. Enn er ónefnt fljótið eða áin Thames (Tempsá) með hinar mörgu víðfrægu stórbrýr, stéttina nýju milli City og Westminster (Embankment), sem Kleopötru-nálin, steinvarðinu, stendur á, en neðar miklu Tempsgöngin, par sem gufu-lestir fara undir ánni. Enu pá neðar eru Dokkurnar, einhver hin mestn mannvirki. Eru hvelfingar eða jarðhús ullt umhverfis pær, að sögn nwrfellt heilapingmaunaleið, ef hver væri áföst Tið aðra. far liefi jeg séð 14 púsund ámur vlns í einum kjallara. Fylgdi mér mað-ur pangað niður,' er bar blys, nafar og krana. Má bver gestur húsbóndans súpa par á eptir1Ö8

vild. ‡>nð Var „Sherry", fornt og sterkt; drakk jeg 2 bikara og varð vel hreifur. IJng stulka og gamall kaupmaður voru í ferðinni. Hann drakk 1 bikar, en hún ekkert, on pó poldi hvorugt meira. Er sterkjan svo megn par niðri. Ekki er gott að lýsa umferðarlífinu á ánni Tomps, befir lengi verið til poss tekið. Mynd-ar lmn einskonar veraldarsýning á floti, pví par má ávallt í einu sjá allar tegundir skipa, smárra og stórra. Jpykir mörgum fróðlegt að standa um hæstan dag við vígin á Lundúna-bryggjuuni og horfa ýmist niður á ána eða á ösina á brúnni hjá manni. Er sú brú talin lielzta slagœð borgarinnar, og er mælt, að 40 púsundir vagna fari yfir hana á degi hverjum. Ný brú frá Tower á ánni er senn fullgjörð. í hana er sagt sé lcomið: 24 mill. múrsteina, 8300 pús. vættir af grásteini, og 300 pús. vætt-ir at' járni og stáli!

Prá Lundúnum fór jeg aptur til Líverpól. J>ar hitti jeg dr. Grossmann, er í fyrra (1892) ferðaðist á íslandi ásamt vini sínum dr. Kahn-heim frá Berlín. Tók dr. Grossmann inér og dóttur minni forkunnar vel. Hann hefir ritað inerka fræðiritgjörð um eðlí lands vors, ser-staklega um skriðjöklamerki pess. Hann bjóst pá að halda fræðilestur í jarðfræðingafelaginu í Lundúnum. Hann átti myndasafn mikið og gott eptir ferð sína, enda býst hann og felagi lians að heimsækja oss aptur. Jeg fann og109

Mr. AVilson, pann er veitti mér farbréfið vest-ur, og bað hann mig geta pess, ef jeg ritaði um Ameriku-ferð mína, hyernig ßifur-linan hefði farið með landa vora. Kvaðst hann gjarnan vilja styrkja fleiri merka Islendinga, sem almenningur mætti trúa, til pess að rann* saka hagi landa peirra, sem flutt hefðu til Canada. — Næsta dag fórum við til Edinborgar. Sú borg er nü svo kunnug orðin üestum, sem blöð og bækur lesa, að engin brýn pörf er til að minna hér á hennar fegurö og stórmerki. Vil jeg nú binda endahnút á pennan ferða* pátt. Við létum út frá Granton á „Thyru" hinn 11. sept. og fengum hvassfiði-i og úfitm sjó nálega alla leið. A skipinu voru til Fær-eyja dauskir fyrirliðar og vitastjóri, er skyldu leiðrétta mælingar á eyjunum og gjöra nýjan uppdrátt. Einn af peim herrura, er allt voru skemmtilegir menn, var Basmussen kapteinn, sk er einkum vakti athygli mína, sem einkenni-legur andans maður og forvitri. Bað hann mig heimsækja sig, ef jeg kæmi til Hafnar. Eptir miðjan dag p. ló., í stórviðri, varð mér geugið upp á pilfarið og hugði jeg við værum enn miðja vega í hafi. Sá jeg pá allt í einu ís-land — endilauga Austfiyði niður fyrir miðjar blíðar. Sýndust fjöllin hvít og kuldaleg, en pað voru m í n fjöll, og brá jeg út höndunuin eins og til að faðma pau. Nokkrir beimsnú-andi Yesturfarar voru frammi í skipinu; gekk110

jeg til peirra með tíðindin. Urðu peir á svip að sjá sem fangar peir, sem skyndilega heyra lesið lausnarbréf sitt. Daginn fyr en við kom-umst inn til Akureyrar, hrepptum við mann-skaðaveður og sjó svo úfinn, að pvilíkan liefi jeg aldrei seð. Lágum við undir áföllum alla nóttina norður af Grimsey, og lá við tjóni, pví mjög sótti sjórinn

niður í skipið, braut annan loptstrompinn, bát og starfhús skipstjórans, og allt lek á reiðiskjálfi. J>að veður lagðist illa í mig, er pað var í aðsígi; vorum við pá að saga stórsjóinn fyrir pvert Langanes, pótti mer pað bjarg æði-kuldalegt, með brimgarðinn skammt frá skipinu. En í storminum var jeg hinn brattasti og kepptist á við stóran og sterkau Englending, hver betur gæti borðað og sofið. Ganga og slík veður fram af manni og sætta oss rið að vera — pað sem við erum— fokstrá í forlaganna straumi. Hinn 19. sncmma, sáum við Grimsey, en ekki sást land fyr en við komum á mitt sundið. J>á komu fram úr kófinu hinar háu dyr Eyjafjarðar, gráar og grimmlega hrímslegnar, en pó hefi jeg aldrei seð „fallegri dyr" ; pótti oss viðbrygði að renna inn á hinn friðsæla íjörð úr slíku heljar-uppnámi. Á hðfninni fretti jeg að allt væri heilt heima. Sannaði jeg pá orðskviðinn, að hið bezta, sem manni mœtir í langri farð, er heil og farsæl heimkoma.111

IV.

Álit um vesturfarir og afkomu manna þar.

Eins og jeg liefi drepið á hér að framan, er mér ekki unnt annað að segja en að kjör landa vorra vestan hafs, að pvi er mér gat sýnst, séu vonum betri, pótt einum líði betur en öðrum; og jeg efast ekki um, að hver ann-ar skynberandi maður, sem með mér hefði fylgst, hefði borið bið sama. JFlestallir, sem jeg sá og talaði við, rirtust hafa nægilegt til fæðis og klæðn&ðar, enda kvörtuðu mjög fáir svo jeg heyrði um örbirgð eða atvinnuskort. Sérstaklega létu bændur peir í Argyle og Da-kota, sem jeg átti tal við, í ljósi ánægju yfir búnaði sínum og landa sinna, par sem mena voru búnir að koma sér nokkuð fyrir. Flestir báru lofsorð á landið og vildu alls ekki kenna pví um pað, sem peir játuðu að enn væri á-bótavant i búnaði peirra og kjörum. Erfiðast var að heyra úr Nýja-íslandi; valda pví lauds-hættir par, mýrlendið og skógamir, og pó sfer í.lagi pað, að engin járnbraut hefir enn verið lögð nærri nýlendunni, eins og lofað var. f>ó er par fjöldi Islendinga enn kyr, ekki svo fáir í sæmilegum efnum, og fáeinir, sem paðan höíðu flutt, var mér sagt, að snúið hefðu pang-að aptur. fó mun pað víst, að í engri ný-lendu í Yesturheimi hafa landar vorir verið að jöfnuði eins leDgi að koma undir sig fótum sem par, cnda flytja pangað sáríair menn af112

öðrura pjöðflokkum. Ætla jeg, að það atrið se einna mest að marka. En par eð jeg sá ekki byggðina, vil jeg ekki frekar um hana daema. Annað rilJi jeg hafa tekið fram. J>eg-ar menn hér á landi heyra vellíðan raanna vestan liafs, eða lesa sögur um uppgang peirra og góða afkomu, pá eru pær fregnir optlega réftar að vísu, pað sem pær ná, en þær parf pó vel að athuga áður en mean sjáltir festa liugann við vesturferðalag. Og fyrst ber raönn-uni að spyrja um eða fá að vita, hvað pessi vellíðan hafi kostað, og hvað uiGiin hafi lagt i sölurnar til að aíia ser hennar; par næst, hvort sú lukka se ekki einhverjum annmörkum bundio, sero menn pekkja lítið til hér eða pagað hefir rerið yfir; i priðja lagi, hvort vel-gengnin sé ekki sumpart peim yfirburðum að pakka, som pann vantar, sem les eða hlustar á. Og enn parf að athuga, hvort nú se eins auðvelt að kjósa ser par bústað einsog pað var hin fyrstu ár, pvi spursraálið, hvort üytja skuli og hvar setjast að, virðist vera sívaxandi vandaspursraál. Vesturheimur er svo ólikt land íslandi, og pau kjör, sem banu býðiir inn-jiytjenduni, að pau viðbrygði sýnast mjög breyta hugsunarhætti manna á ekki mörgum árum, svo að peir munu margir skoða sjálfa sig, pcg-ar peir líta til baka, eins og væri peir orðnir nýir menn. Mun pað venjulegt, að nýkomnu fólki leiðist par mjög í fyrstu og kenni til113

sárrar heimprár, og að sú lieimprá lifi sí og æ í kolunum, nema hjá rajög ungu fólki. Svo kemur annað tímabil. það byrjar pegar menn fara betur að kynnast og koma fótum fyrir sig i landinu og aðdráttarafl pess fer að hrífa. J>á er hugurinn eins og tvískiptur ; menn horía bæði fram og aptur; peini fer að ínnast til um nýja landið, og pó hugurinn hvarfii æ heirn annað veifið, harka peir pað af sér, og pá líður ekki á löngu áður en peim finnst sera Amerika sö orðin þeirra annað fósturland. Ur pví taka peir að lofa landið og vegsaraa pess miklu og máttugu kosti, og pola ekki lengur að nokkur niðri pví, eða hrósi nokkru öðru landi til móts við pað. Og pó — pó hafa peir ekki gleymt sínu móðurlaHdi, heldur prá pað onn, elslca pað enn, ekki nœr ætíð svo, að peir gefi uin að flytja alfarnir heim, pótt peir gæti, heldur til að sjá pað, yngja sig aptur upp á pví að sjá pað — rétt eins og barnið vill allt til vinna, að fá snöggvast að finna móður sína, cf pað hefir vevið frá henni tekið og sé orðið mátulega stálpað til að sætta sig við lítið. J>að hefir verið tekið fram um aðra Skandínafa í Ameriku, sem par í landi hafa elzt og unað vel hag sínum, að aldrei sakni peir sárara pjóðernis sins og ættjarðar, en pegar peir i ellinni beyra og sjá

börn sín orðin svo amerisk í anda, að pau vilja hvorki sjá né beyra tungu-mál, sögu, söngva og siði foreldrauna. Og

8114

petta mun optast nær vera síðasta tímabilið i sögu vesturfarans, sem fullorðinn ftytur í'rá landi sinu. Innborna, fyrsta kvnslóðin mun nær ætinlega reynast par miklu fremur am-erisk en ütlend, euda eins fyrir pað, pótt hún lifi meðal frænda sinna. Af pessu má óhætt ráða, hvort einhlýtt sé að skilja. bref eða fregn-ir einungis eptir orðanna hljóðun, enda hvort heldur menn skrifa í góðu skapi lof um hið nýja land, ellegar í döpru skapi niðrandi. Menn skrifa ekki né segja allt — liver er svo viti borinnt) og opt vita menn ekki nema til hálfs hvað menn skrifa. Hrað agenta-sögur snertir, er nü enu meiri vandi aD vita liverju menn eigi að trúa,— ekki svo, að allur fjöldi peirra vilji segja ósatt, heldur sakir pess, að peir eru menn og—agentar. ‡>eim verður ósjálfrátt að fegra bæði hinar ljótari og fegri hliðarnar. Embættisskylda, eiginn bagnaður, keppni og kringumstæður verða flest-um peirra of máttugir fylgismenn til pess að peir sjái smálýtin. ‡>ó að ólíkt hógværara sé talað móti versturfl.utningum í Danmörku og Noregi en lier, er almenningi par sem ann-arstaðar jafnan ráðið til af gætnum mönnum, að trúa ekki ófyrirsynju peim, sem hafa fyrir atvinnuveg, að telja menn á slíkar ferðir, pótt jeg hvergi hafi beyrt pess getið, að slíkir menn liafi mætt nokkru serlegu álasi eða ofsóknum. Hvi skyldu peir vera miður heiðarlegir cn aðrirviðskiptamenn, sem hvorki ljúga né svíkja vís-vitandi ? Og á hina hliðina eru pað engin landráð, pótt menn flytji af landi burt, sízt pó cf menn purfa að leita sér betri atvinnu. Má ruiklu fremur skoða pað sem dyggð og skyldu, að leita allra löglegra úrræða til að bæta hag og framtið sjálfs síu og sinna. ]?að, að skipta um bústaði e3a að flytja sig úr einu landi í annað, er og náttúruhvöt og eitt af tilverunnar framsóknarlögum. Án peirrar hvat-ar hefði hver einstök pjóð dáið út fyrir örlög frarn, hvor pjóðmeuning skræinað upp. enda allt raannkynið dáið í reifunum. En — skyn-somina parf að hafa til röttrar ályktunar, pví fremur sem meira er í efni og alpýða á í hlut, sem svo optlega eltir æsingar og blinda aldar-baitti. Skoðanir manna vorða eioungis sann-aðar moð reynslunni; pví er hér bót í máli, pótt enn se úr vöndu að ráða, að töluvorð reynsla, hvað vesturfarirnar snei'tir, er á boð-stólum. En pví skal ekki strax takafram, að ísland parf á öllu sínu að halda og má enga krapta missa? cða gæti ísland ekki leikandi fætt og klætt öll sín börn, ef pau vildu una og vinna ser og pví allt pað gagn, sem peiin væri auðið? þessu hefir opt verið syarað og optast játandi, og lier játa jeg prí líka fyrir mitt leyti. En pað leysir ekki gátuua og greiðir ekki rnálið, og lög og — landstjórn ekki

holdur. Hvötin er vöknuð, hin innri pörf

8*116

er kviknuð, og skriðið er komið ú. Urðar orði kveðr engi maðr. Sum lönd eru ofsett íólki, og par (t. d. á Engl., Skotl. og írl.) er fólki ekki einungis leyft að fara hvort á land pað vill, heldur og stundum styrkt til ferðar. 1 öðrum löndum (Rússlandi) er fólk rekið burt úr pess föðurlandi. Enn eru lönd til, sera fáir flytja frá, heldur er par beðið um, að hver flytji pangað, sem geti, Hvað gjöra menn pá réttast liér á landi? Að biðja aðrar pjóðir að flytja til vor? J>að mundi hafa lvtinn á-rangur. Nei, oss mun standa næst, að taka hógværlega og skynsamlega í raálið, hlynna sem allra bezt að peim, sem mest prá bætur á atvinnu sinni, keppast, í cinu orði sagt, við að koma upp landinu, og, sérstaklega, reyna að stilla og greiða petta vesturflutningamál sem bezt verður með pekkingarinnar, reynsl-unnar og skynseminnar rökum. Jeg skal að svo mæltu geyma mér frekari ályktanir, en låta hér fylgja útdrátt úr skýrslum, sem œtla má að séu óíalsaðar, skýrslur um reynslu nokkurra ftlitilla manna frá öðru landi, sem á sama tíma og vorir landar hafa flutt sig bú-ferlum og sezt að í Canada.

Árið 1890 sendi stjórnin í Canada tilboð 12 vel menntuðum skozkum, enskum og írskum bændum, að koma vestur og ferðast um hin ýmsu lönd ríkisins frá hafi til hafs. Skyldu peim allir lilutir, sem peir við pyrftu á leið-117

inni, sjálfboðnir. Hinir kjörnu menn páðu boðið, lögðu af stað frá Englandi 28. ágúst, og lentu aptur við England 26. nóvember s. á. Er för peirra all-fræg síðau. LetCanadastjórn prenta í einni. bók ferðasögn hvers pessara manna fyrir sig. Hefi jeg yfirfarið pser allar, og pótt peir segi allir frá sama efni, sumir yrðu samferða og sæji pað sama, eru skýrsl-urnar pó töluvert mismunandi; sannast á peim máltækið, að sínum augum lítur hver á silfrið. En

í aðalefninu ber sendimönnum pessum á-gætlega vel saman, sérstaklega par sem peir að lokinni hverri skýrslu gefa álit sitt um kosti og galla í Canada. Öllum ber peim vel saman um pað, að Canada sé í heild sinni eitthvert bið frjóvsamasta land, og í flestu betra land en pað, sem landnemar hafi áður búið í, sumstaðar frjórra en sjálft England. ‡>ó kemur peim saman um hilt, að mjög séu landflæmin í Canada margbreytt og misjöfn að eðli og auðlegð náttúrunnar, enda ná pessi sambandslöml yfir ógnar-geima iiorður og suður, austur og vestur. Nyrzt eru litt byggileg héruð; sama má segja um nokkurn bluta Klettafjallanna og um stórflæmið austur af Manitoba, sem lítil líkindi eru til að byggist, nema mjög svo seint. í Neðri-Canada (fyrir austan eyðiskógana) eru pessi ríki: Nýja Skot-land, Nýja Brnnsvik, Prins Edvarðar ey, Kve-bek og Ontario. En í Efri-Canada oru ríkin:118

Manitoba, Utnoiðurlöndin og Brota-Columbía. Neðri Canada er nii hin eiginlega Canada, pvi hitt eru alveg nýbyggð, hálfbyggð eða litt byggð lönd, en pó miklu meiri að víðáttu, cins og kunnugt er, en hin. Um hin 3 fyrst nefndu lönd eða fylki tala skýrslurnar minnzt, enda eru pau fyrir öldum síðan albyggð, en fjölorð-ari eru peir um Kvebek og Ontario. Nnlckr-ir innflytjendur kaupa reyndar enn við og við ból og byggðir í sjóarfylkjunum, pvi pau pykja gæðalönd og veðursæl, enda líkust hinnm ensku eylöndura. Aðrir leita til Kvebek, en ekki mjög margir, pví víða er pað land rniður frjótt, og hið franska fólk, sem par býr, skiptir litt ura bústaði. Neðst raeð Lárenzfijótinu búa mest Skotar, er par hart land og strjálbyggt, og stunda menn par jafnframt eða raest veiði-skap. En suður í Ontarió-fylkið sælcir enn fjöldi roanna, einkum Englendingar og aðrir, sem fe hafa. Yerður að kaupa par hverja púfu, pví allt er ræktað og byggt. Ontario er afar-gott og frjótt land. Samt sem áður selja bænd-nr par iðulega jarðir sinar, mest — segja ferða-mennirnir — í pví skyni, að flytja vestur í hveitilöndin í Efri Canada. J>ykjast peir par hafa meira land um að velja og eiga auðvelt að kaupa ser og öllum sinum niðjum nógar og betri óðalsjarðir fyrir minna fé en peir fá fyrir sina fyrri jörð. Svo mikið álit haía Ontarió-mcnn á landgæðunum par vestra. Hvað119

Manitoba snertir, ljúka allir upp sama rnunni um að pað se eitt hið bezta hveitiland i heimi, enda vaxi par að sama skapi nálega allur jarðargróði. Prjóvsemi hins mikla ttatlendis allan veg frá Efrisjó og eyðimörkunni vestur til fjalla, stafar af pvi, að par hefir haf eða afar-mikið vatnsiiæmi um ómuna aldir yfir legið, en ofan á pann leirbotn, sem vatnið lá yfir, hefir bættst við aska eptir ótðlulegar preríu-brennur. Frjómoldin er par viða yfir 20 fet niður, og hveitiakrarnir spretta par mörg ár samfieytt án nokkurs áburðar eða rækt-unar. Nyrðri hluti Manitobalandsins eru vötn og skógarmarkir, og pvi óbyggilegra sem norð-ar kemur. ]?ó ætla menn, að viða með stór-vötnunnm megi gjöra stórbyggðir, einkum með gripabúnaði. Löndin vestur af Manitoba (Ut-norðurlöndin) eru og stórkostleg hveitilönd, eða pá fyrir blandaðan búnað (mixed farming). þegar kemur vestur í fylkið Alberta, er landið orðið æði-hálent, dregur par heldur úr frjóv-seminni, en hagar eru pvi betri. Sama má segja um héruð pau, sem par eru norður af með fjöllunum, vesturhluta Saskatcliewan og Edmontons. f>au heruð eru nú óðum að byggj-ast. Jpvi nær sem að fjöllunum drogur, minnk-ar vetrarfrostið pó landið hækki, og i Breta-Columbiu er hafiopt og svipað pvi, sem er á Englandi. J>ar vestra eru skógar feykilega miklir, enda hin beztu bülönd innan um; par20

byrjar og sigling mikil og kaupskapur við Kyrrabafið, og eru pvi borgir miklar að mynd-ast par (Yancover, Yictoria, NewWestminster). En, svo jeg haldi præðinum, skal jeg strax taka fram sameiginlegt álit skoðunarmannanna. J>ó peir engan veginn dáist að öllu, heldur taki skýrt fram skuggahliðarnar, segist peim öllum á einn veg frá, að pœr séu bverfandi Í samanburði við gæðin. Hitinn og kuldinn vestur á sléttunum sé að vísu meiri en venju-legt sé á Englandi, en aptur sé loptið bæði purrara og heilnæmara, enda segi sumir Eng-lendingar, að með vananum kjósi peir heldur loptslagið par vestra en hið saggasama enska lopt. Eyrstu árin eru lökust. Annar gallinn eru flugurnar. En um pá plágu tala fáir, sem par hafa haft ári lengur lieimili. J>riðja mein-ið eru nœturfrostin í ágúst, sem optlega stór-skemma bveitið. ‡>essi plágan segja peir sé lang-verst Yiðfangs, Eu samt gefizt meðöl við henni. Aðalráðið se, að sá sem allra fyrst, og velja pað hveiti til utiæðis, sem reynd se fyrir að fyrst proskist og bezt poli kulda. Sumir Tarenna hálmhrúgum að norðan og austan við akrana pegar útlit er fyrir frost. Leggst pá gufa yfir akurinn, sem ver hann skaða. Hjá framsýnum bœndum gjöra frost pessi sjaldan mein. jpessir eru nú belztu ókostirnir — að fráteknum peim, sem kunna að stafa af óbeppi-lega kosinni jörð, vatnsskorti, skjólleysi o. ü.121

J>ar sem skóglaust er og skjólalaust, ber hina mestu nauðsyn til að planta sem fyrst trjálundi til hlífðar og fegurðar, Margir íslendingar bæði i Argyle og suður í Dakota hafa skóg nærri bæjum sínum; en víða eru slétturnar allsberar, hæða- og skjólalausar. Jeg skal nü pýða fáein samtöl úr hinum nefndu ferðasög-um ; má par af heyra kurrinn eða álit hinna einstöku nýbyggjenda. ]?eir, sem svara, eru fiestir skozkir Orofters, p. e. smábændur eða kotungsmenn frá hálendinu, sem enska stjórnin hafði lánað fé til farningar vestur. Hafa peir lengi haft orð á sér fyrir örbirgð og amlóða-skap og vildi pví stjórnin gjöra tilraun til að dustu pá upp til menningar.

Nú læt jeg Katanessbóndann, Mr. Georg Brün, tala:

„]j>aðan fói'um við til Saltcoats (í Manitoba). |>ar büa kotungar peir, sem stjórnin gerði út. Héraðið er mikið land, rennslétt og vaxið lág-ríði bér og hvar, jarðvegurinn djúpur, frjór og límkenndur; til vatns ekki nema 10—12 fet. Hér búa 49 heimilisfeður, sem allir komu vestur 1889, en aðrir 30, sem stjórnin studdi, lentu við Pelecanvatn í Suður-Manitoba. Stjórn-in gaf hrerjum bónda 120 pund sterl.; skyldi pað fé borgað smásaman, fyrst til ferðarinnar, en síðan til að fá peiin bústað fyrir o. fl., og fæði skyldi peim gefið pangað til fyrstu uppsker-unni yrði lokið. Jeghitti par fyrst bóndannN.122

og spurði hann spjörunum úr. Hann sagði svo: „Jeg åtti skratti erfitt, karl ruinn, fyrra árið, ekkert gåt sprottið fyrir votviðri og vinna fekkst hér livergi i grennd. Jeg páraði heim og réð öllum frá að fiytja hingað. En pegar lokið var uppskerunni núna i sumar, leizt mér betur á blikuna, lagsmaður, og nü vildi jeg ekki hverfa heim hvað sem í boði væri. Hitt pykir mér slæmt, hvað skolli dýrir peir eru hérna á ýmsum nauðsynjum. Stjórnin blessuð hætti líka heldur fljótt að fæða okkur, eins og hán pó lofaði — hana nú".

Annar bóndi sagði: „Jeg á 12 ekrur í ár undir sáning, og setti niður 10 smátunnur af kartöflum, en fékk aptur 160 smátunnur, og mikið af hveiti. Yið höfum borðað kartöflur, skal jeg segja pér, síðan í júní. Jeg hef 12 í fjósi með akneytunum. Næsta ár vil jeg sá í 25 ekrur. ÍJr pessu landi fer jeg éklci spor nema dreginn með kaðli. Samt leiddist mér fyrst".

Annar Hálendingur sagði svo frá: ,..Jeg sáði í 10 ekrur í fyrra, en ætla að legjja undir 20 næsta ár. Jeg vann að járnbraut í fyrra retur og fékk hálfa fimmtu krónu um daginn, eða rúmlega pað. Hér eru illa hafandi naut-gripir sökum vatnsskorts. Mér leizt hér illa á mig í fyrra, pegar engin var uppskeran vegna purkanna, en í ár lítur allt betur út. Við stjórnina heima og hennar viðurgjörning er jeg liarðánægður. Jeg á ekki nema hálfan vagn,123

pað fellur mér bágast, pví granni minn á hinn partinn, svo við reluimst opt á; vildi heldur eiga kúnni færra. Ekki horfi jeg 1 að eggja menn heima á að ílytja hingað til pessa lands, og ekkiflyt jeg héðan fvrir nokkurn mun". — Alexander Dónaldsson sagði: „Tólf ekrur sáði jeg i, en bæti nú úr skåk og sái í 20. Níii eru höfuðin í fjósinu, og níu á pallinum, karl minn. En öll erum við frísk og ankannalítil. Hér nærri cr nú verið að koma upp skólahúsi. Messu fáum við hér aðra hvora helgi, og er nóg. Mer pykir vænt um lancliðj og broyfi mig ekki béðan; pví pað er mín skoðun, að petta se hið bczta land í veröldinni fyrir barnamann". — Marteinn Dónaldsson sagði: „Jeg átti 8 ekrur sánar, en hefi undirbúið 4 í viðbót. I fyrra leizt mér illa å, en er vel ánægður í ár. Jeg vann mér inn 83 dali í vetur leið við járnbraut. A pví lifðum við til vors. Jeg eggja alla mína kunningja hingað að flytja. Ekki langar mig stórt heim til gamla landsins. Jeg heü skrifað eptir móður minni og premur systkynum að koma, og á von á peim öllum. Betri bústað en pennan kæri jeg mig ekki um". — Ivarson (Mclvor) sagði: ,.Jeg sáði i 12 ekrur, og bæti nú við 8 ef jeg lifi og góður Guð lofar. Yi5 erum 11 manns. Telpa 16 vetra, nærri blind, er nú á bospitalinu í Winnipeg. Mér pykja liestir blutir liér vera æði-dýrkeyptir. Svo líkaði mérm

filnalega illa við doktorinn; hann^ hélt okkur uppi á pilfari i Greenock langa-lengi 1 köldu veðri um hánótt; pað átti sem se, trúi'jeg, að skoða fólkið. Við landið líkar mer skratti vel, og vildi óska, að allir mínir kunningjar kæmi hingað, pví staðurinn er tignarlegui- og brilíant! Mer leizt samt grimmiloga illa á allt fyrst, pví, pá brást uppskeran, sko; en nú er jeg að pára peim heima að koma og koma, eins bróður mínum í Winnipeg". Einn kvaðst hafa byrjað með einum akneytum, kú og kálíi og brotið upp 8 ekrur. Nú hefði hann 40 ekrur undir. Kýrnar gæfist vel og smér sitt og egg dygði vel til fæðis. Yeturinn kvað hann betri bér en á, Skotlandi, pví úr pví snjór kæmi, heldist staðviðrið; her pyrfti ekki að kviða sí-feldum bleytum og sulli. Ekki vildi hann hafa jarðaskipti. — Madama Stúart sagði svo: „Illa og nauðailla kunni jeg her við mig fyrst eptir að við komum; her vorum við líka í

einangri og óbyggð. En nú er það yfírstaðið allt, bless-aðir verið per; við erum svona manneskjurnar! Hvernig sem það er, pá kýs jeg nú ekki héð-an að flytja. Krakkaormarnir eru 4 og vona jeg með herrans hjálp að standast straum af peim. Yið eigum nú 70 ekrur undir plógi, og fáum fleiri; kartöflurnar tel jeg ekki, pær er hægt að fá; 8 eru kýrnar með kálfi og 5 mjólka jeg; svo á jeg gyltu-grey með grisum; pá selj-um við mánaðar gamla. Ekki finnst mér vet-125

urinn harðari ber en heima. Betra land en petta get jeg ekki hugsað mér fyrir kýr og hænsni, pví kvígan á liér káíf 18 mánaða gömul — sjáið per, blessaðir verið pér — sona er p a ð nú". — Hinn skozki jarl af Apardjón var staddur suðnr við Pelecanvatnið og spurði einn pessara landa sinna, hvernig honum liði par. Skotti svaraði: „J>að get jeg sagt pér, berra góður, að sá dagur rar heilladagur peg-ar jeg kvaddi Skotland, lagði til liafs á eim-skipinu og lenti í pessu stóra og feita plássi. Jeg á 3 syni og eiga peir nú sinar 160 ckr-urnar kver; en til samans ejgum við 640. Við vinnum í félagi og eigum 90 ekrur undir sán-iiig. Gripi höíum við eignast eptir pörfuiu, í sumar fengum við 900 smátunnur af kveiti, auk bankabyggs, bafra, kartaüa og matjurta. Næsta ár sáuin við í 150 ekrur. Timbur er bér nærlendis að fá. Pelecanvatnið er fullt af fiski; aí endum, gœsum og allskonar fuglum er hér nóg. Yið pjónum engum húsbænduru, og her eru engir ríkismenn, sem fiá -pá cða faDga, sem skjóta fugl sér til lífsbjargar. Allír skattarnir eru 30 dalir af 640 ekrum. J>etta finnst okkur nú gott land, pvi sunrir sá 10 ár samfieytt áburðarlaust. Mér dettur opt í bug fólk á Skotlandi, sem TÍnnur baki brotnu alla æfi á annara landi og hefir naumlega í sig og ä. Korni peir piltar hingað og eignist peir sinar 160 ckrur, lausir við alla skozka yfir-126

drottnun, og íijóti peir sinna handaverka á slíkri jörð sem pessari, peir og peirra niðjar meðan jörð grær og vötn til víðis renua! Nóg er landið hér í útnorðrinu, og er jeg pvi ein-ráðinn í að bjóða öllum hingað a3 flytja, sem jeg næ til og mín orð vilja meta". Jarlinn spurði um ókosti landsins. Karl svaraði: „ítétt er það, sonur! En ef jeg færi að segja pér frá skuggahliðum hér, segði jeg pér frá hlutum, sem jeg ekkert veit um. Yið okkur hefir allt brosað síðan við hingað fluttum. Og allir bændur hér segja það sama". — Eiun sagði: „Jeg var nærri pví félaus pegar jeg kom, en á nú 100 ekrur undir hveiti, eptir 3 ár, 30 i fjósi, best og eyki. svo og öll verkfæri til akurstarfa. Jeg hefi byggt mér pokkalegt íbúðarhús. Ekki fer jeg heim aptur til að bokra par, heldur væri það, ef mér byðist einhver ágæt staða önnur".

A líkan hátt farast nálega öllum nýbyggj-endunum orð, peirra, sem peir félagar tilfæra. Yíir höfuð lofa sendimennirnir mjög bæði landkosti Efri Canada og hug landnema. Einn segir í niðurlagi síns mais (og er það sam-svarandi hinna ålyktun) :

„Í stuttu máli að segja, mun enginn mað-ur iðrast pess að hann flutti vestur — það er að segja, reglumaður, sera dugar til að vinna. Auðvitað er, að stórum hjålpar það, að eiga og hafa með sér nokkra fjårmuni, en pó farn-127

ast peim að tiltölu nálega bezt, sem lítið hafa við að styðjast nemi prek, sparsemi og skynsemi. Mjög er Eí'ri Canada æskilegt land fyrir tora minni bændur, sem ekki eru ofgóðu vanir, og ekki telja eptir ser að vinna og eiga eriitt í fyrstu. Mjög or áríðandi að rasa ekki fyrir ráð fram pegar velja skal bústaði. Skyldu menn vera vandir að ráða-nautum, enda skoða sjálfir sem tíesta staði til samanburðar. Margir bafa látið fyrirberast beilt ár, áður en peir hafa valið ser byggð eða keypt, og aldrei iðr-ast eptir. Stjómin og fulltrúar hennar er og jafnan †ii taks til að leiðbeina hverjum, sem með skynsemi spyr sig fyrir. Óráðlegt er ný-byggjendum að flytja opt byggð sína, nema sýnu betra bjóðist. Blandaður búnaður pykir bezt gefast. Utsæði nýtt og betra, svo og allar nýjar tilbreytingar og uppfyndingar eru jafnan á boðstólum, bœði frá bálfu stjórnar-innar og á markaðinum. Hin ágætu fyrir-myndarbú víðsvegar eru pó beztu og drjúgustu lærimeistararnir. ‡>ótt viða sé komin byggð meðfram brautunum, eru saint stórir kaflar eptir, en það er eign brautarfélaganna*. Fást

*) Eins og kunnugt %r leggja ekki landstjórnir járnbrautir í Ameríku, heldur gjöra það au3-meiininiir í félagsskap, en peir semja um styrk af rikisfe, og fá hann í laudsspildum, annað-128

pær jarðir optast með mjög góðum kjörum. Aukajárnregir fjölga árlega, jafnóðum og inn-flytjendur færa út byggðina. cnda byggjast stór flæmi sumstaðar svo fljóttað undrum sætir". — A pessa leið segist tjeðum mönnum frá, og dreg jeg pó heldur úr en bæti við, pví vera má, að menn pessir, sem boðnir roru og á all-an hátt laðaðir og studdir af landsstjórninni, hafi heldur viljað segja lof en last um lönd pau, sem peir fóru um ]pó heyri jeg skýrsl-

ur pessar bafðar í hávegum, sem mjög áreið-anlegar. Sumir mennirnir eru og nafntogaðir t. d. herforingjarnir Fane og Stevenson. og allir voru peir ritfærir menn.

Hvað Nýja-ísland snerlir er fæstum hér á laudi vorkunn á, að geta gjört ser nægilega ljósa grein fyrir, a5 hverju fátækir menn eigi par a3 bverfa, pví svo margir Isleudingar hafa barizt par, skrifað heim um hagi sína, og íiutt paðan aptur eptir árangurslítið strið. Og pó brefin í „jpjóðólíi" nú í haust um nýlendu pessa seu auðvitað æði öfga-kennd, hafa pó allir, sem læsir eru, glögga mynd aí hennar

hvort stykki (sections) eða enn meiri hlut lands pess, sem liggur nœst brautinni. I Canada á pó stjórnin stór landtlremi, sem hún ýmist gefur eða selur með lágu verði, 1—2 dali ekru hverja. En félögin eru miklu dýrari á góðu löndunum, J>ó hafa landgæðin jafnan meiri pýðingu en verðið; låta menn pá 'afurðina sjálfa borga. Bmásálarskapur er par ekki lenzka.129

vorstu hliðum. Nýlenda, sem svo margir fiýja, og svo fáir, ef nokkrir, enskutalandi menn lofa eða üytja i, getur ekki verið kosta land. Auðvitað er aðalmeinið par, að engiu järnbraut er par nærri, og livenær kemur hún ?

Heimssýningin.

(The World's Columbian Exposition).

Síðan Napoleon 3. var steypt frå völdum, beiir enginn atbnrður sett jafmnarga penna i hreyfingu eins og sýningin i Chicago. Hver-vetna á allri jarðarkúlunni, par som siðaðar pjóðir hafa búið eða verið á ferð, á sjó og landi, hofir petta stórfenga söguefni verið á dagskrá, sem ársins lang-merkasta umtalsefni. Eárra annara atburða heíir gætt — pað skyldi pá vera Panamamálsins franska, írsku deilunn-ar á Englandi, og norðurfarar Nansens. Vopna-brak og skothríðir bins arga ófriðar hefir hvergi heyrzt; ferðnkeisarinn og gamli Bismarck hafa legið svo að segja i pagnargildi, og for-dild og fjaðraskúfar hershöfðingjanna yfir hin-um mörgu milliónum mannslátrara Norðurálf-unnar hafa vakið venju fremur litla undrun og aðdáun hins einfalda vana-rils. Jeg nefndi Napoleon: hvað er hann og hans vesæla keis-arastjórn? Syívirðiug í sögu Evrópu, sem kom og hvarf á tveim áratugum og endaði með ósköpum: slátrað nokkuru færri mann-eskjum á. ári en Chicagómenn slátra svínum!

J>ö að margir í Evrópu vilji gjöra litið úr afreksverkum Ameríkumarma hvað listir og í-próttir snertir, pá mun óhœtt að fullyrða, að Clncagó-sýningin er svo mikil og verður svo afleiðingarik, að vart hefir meiri viðburður orðið i veraldarsögunni siðan Rolumbus fann

V130

Vesturhcim — viðburður í menningarlega stefnu. ‡>ess3 sýning, pó yngst sé, má heita drottning allra hinna fyrri, og pað fyrir fieiri en eina sök. Hún er margfalt stærri og fjöl-breyttari en nokkur hinna hefir verið; Íiún birtir fyrst til hlýtar hið fulla umraál sýninga-hugsjónarinnar, pvi liún innibindur alla pjóð-wenning hnattarins. Og hún fer fram í hjarta Vesturheims, i borg, sem er hín lang-yngsta borg heimsins, nýfætt barn í sögunni, en barn með risavexti og proska, borg, sem á 50 árum hefir orðið heimkynni halfrar annarar milliónar manna, borg, sem menn peir er enn lifa, byggðu í fyrsta húsið, og síðan hafa sfeð vaxa yfir höfuð allra annara borga (nema 5) — séð vaxa eins og furðu allrar veraldar, einsogtákn tímans, undur hinnar nýju sögu og nýju mann-kyns-menningar. I Chicago eða á hennar heimssýningu mættist allur Vesturheimur, sem vildi hann aetja gjörðardóm yfir hinura gamla heimi moð hans sögu, siðura og — syndum. Einkum, má óhætt segja, hefir hin unga Amerika eins og skorað Evrópu gömlu á hólm, og pegj-andi sagt við hana: „Kom hér, forna frænd-kona, og reyn pig við mig; reynura nú, hver betur bíta vopnin, pín eða mín; reynum, hverj-ir sigursælli eru, hetjurnar pínar, landsóniag-arnir, eða minir drengir og — fyrirgefðu! — stúlkur. Reyn nú og sjá, hvort hollara se fyrir fólkið, fjötrarnir pínir eða frelsislögin | min. Við ömrau okkar, kerlinguna hana Asíu, sem cltir pig, tala jeg ekki, pví hún er fyrir löngu gamalær orðin og gengin í barndóm, en Afrika er uraskiptingur og aumingi, og er nú komin á spítala hjá stórveldunum! En orðs-kviðalaust talað: við brúkum hér ekki vopn við aðra en óargadýr, og til að sigra með öíi náttúrunnar; við pykjumst deyja nógu sncmuia131

hér pótt við vegum ekki menn og verðum apt-ur vegnir. Mér dettur pvi ekki í hug að bera vopn á pig, pótt ekki yaxir pú mér i augum, heldur vil jeg, að pú leggir niður pinn vopna-burð, og viljir pü ekki eða getir pü ekki gjört

það nú pegar, pá munt pú síðar gjöra pað, pvi til pess hefi jeg stefnt per, og pü munt hlýða mér að lokum!" — Slík sýning sem pessi ätti ekki að sýna nýja veiðaröngla eða nýtt lag á ljáblöðum; hún átti að birta heiminum fyrir-myndir í frelsi og menningu, en brjóta í bág við forna heimsku og harðýðgi; hún átti að lýsa hugsjónir vizkunnar og ípróttanna, og lypta púsundum manna á bærra sjónarsvið sannleika og réttvísi; hún átti að blása voðann úr hendi harðstjóranna, sem aldrei vilja sleppa hnifnum, og mölva gullhlekki gamallar fordild-ar. Hún áleit pað aukagetu, að sýna undra-listir Edisons, og bregða upp skrautloga 150 púsund ravleiptra, en hún vildi sýna pá list, að gjöra allar pjóðir að einni með almættis-orði mannelskunnar, og bregða kristindómsins kærleiksljósi yfir allt vort kyn í einu! Og konan gekk par fram í fyrsta sinni í sögu veraldarinnar sem drottning við hlið herra jarðarinnar, — drottning, sem sat í hásæti í peirri listahöll, sem hún hafði sjálf byggt. Hin frönsku orð: PÄELSI, JAFNRÉTTI, BRÓÐ-ERNI, voru þangað til heiti í skáldskap pjóð-anna, hugmynda-blómstur, sem ekki fundu jarð-veg austan hafs. Sýningin í Chicago vakti pau til verulegs lífs, og nú gróa pau í góðri jörð við Michigan-vatnið í miðri Ameríku!

Að lýsa Chicagó-sýningunni án mynda og uppdrátta er nálega ómögulegt svo að lesend-urnir rerði nokkru nær. Svo er hún (eða var) stórkostleg og margbrotin, og svo eru flestir lesendur mínir slikum stórvirkjum óvanir, enda

9*132

skortir mig sjálfan allt til pess, að geta full-nægt pörf maima i pvi efni. Til pess pyrfti ekki einungis að rita heilar bækur i 100 kapi-tulum, heldur og hundrað sinnum meiri skiln-ing, minni, fróðleik og kunnáttu, en jeg hefi. Væri slikt heimtað af mer, væri pað álíka sanngjarnt eins og ef ætlast væri til að ungl-ingur, sem dvalið hefði hálfan mánuð við há-skóla, gæti munað og framsett allar fræðigrein-ir, sem par hefði kenndar verið. Auðvitað er, að hefði jeg tíma til og efni, gæti jeg stutt mig við annara bækur, blöð og skýrslur, langfc mál samið og sagt frá mörgu merkilegu, en úr pvi slíks er meinað, verða menn að sætta sig við ofur-stutt ágrip, helzt um pað, sem fyrir min eigin augu bar. Einungis vildi jeg óika, að mcr tækist að vekja. hugsjón eða ímyndunarafi manna, einkum minna yngri les^ enda, fyrir hinu stóra og fagra í sýningunni. pví i sannleik á ekki saman nema nafnið a5 sjá heiinssýningar. Jcg hefi eílaust verið innan um heila hópa af fólki, sem horft hafa eins og jeg á „öll riki veraldar" í Cliicagó, máske marga, sem pekkt liafa til og skilið hið ein-staka margfalt betur eu jeg, ug samt ekki seð neitt. Sá, sem ekki er andlega skvgn, sér aldrei, skilur aldrei annað en yfirborðið. Eins og trúin ein ser guðs dýrð, eins sér eng-inn hið „stóra" i náttúrunni, lifinu og listinni, nema liann se af pví snortinn og af andanum fæddur.

Nú er pað mjög eptirtektavert, að öll al-pýða manna, einkum i Norðuráífunni, ber Ohicagó-sýningunni pað einmitt mest á brýn, að bún hafi verið of-stór, of risavaxin, of fjölbreytt, að ekki hafi verið unnt að sjá yfii" hana i einu og ná heildar-hugraynd hennar, bið gagnstæðilega og sundurleita hafi truílað133

álíbrfandann svo hann hafi orðið pvi heimsk-ari sem hann horfði á íieira. I þessu er nokk-uð satt, pvi svo, en ekki öðruvísi, leit sýningin og hlaut út að líta í augum fjöldans. Fyrir mínum augum stóð hún samt og stendur enn öðruvísi. Jeg var nógu heimskur og ófróður til pess að mér yrði ofmikið um hið einstaka, og margbreytnina og mótsetningarnar leit jeg á eins og eðli hlutanna; skrautiðog listaverkin var hvergi meira en jeg bjóst við. Meir að segja: jeg var nógu heimskur til að heimta: meira-meira! Og — jeg póttist sjá meira. Jeg póttist sjá heildina, finna liinn rétta mæli-kvarða, heyra samræmið, skynja hugsjónina, eygja tilgang og takmark. jpessvegna dáist jeg að pessari sýningu, pessvegna gladdi hún mig og gleður, sem hefði jeg seð inn í hið fyrirheitna lancl! J>að er pá satt, — hugsaði jeg — sem mér var kennt í guðsorði pegar jeg var barn: jeg sfe guðs dýrð, pví hún er her opinberuð i verkum hans barna! J>að er pá satt, sem mig dreymdi: lífið er meira en æfin-týri, lífið er dýrðlegt og pess vert að lifað se. J>cgar jeg fæddist fyrir rúmri hálfri öld var pessi veröld ekki til: mannkynið heíir skap-að wilt petta á minni æfi! Og bak við pessi guðdómlegu listaverk standa hiuar nýju ódauð-legu hugsjónir frelsis og mannúðar — hugsjón-ir, sem öllu pessu hafa komið í verk. J>etta er hið „stóra".

Fylgi menn mér í anda alla leið út og vestur frá Lárenzöóanum, eitthvað 100 ping-mannaleiðir, eptir ám og vötnum, sjáum við loks fyrir stafni, ef bjart er, móðu mikla í vestri, og pví næst rís par geysiraikil borg upp úr hafi að sjá — pví stórvötn Ameríku eru lik reginhöfum. Höí'nin er afar-víð og skógur af siglutrjám ber hvar sem litið er i turna og134

stórhýsi staðarins. Reykur og mistur sveipar borg og höfn hálf-gagnsæjum hulinshjálmi. Ekki leggjum við par að landi, pví pótt petta sé Chicago, er engin sýning hér nærri slíkri dimrn-svælu. Segir hafnsögumaður, að par á landi, sem við seum að komnir, sé norðurhluti borg-arinnar, og séu enn 2 vikur sjávar eptir suður að sýningarstaðnum. Stefnum við nú pangað. Minnkar pá reykurinn og mistrið smásaman og gjörist hið bjartasta landsýni. ]pynnist nú húsa-skipanin á landi að sjá, ea lauftrfe og grœnir lundar liggja langs með vatnmu. Nú bólar á Barða! Eða hvert kljádýr er pað, sem par suður frá ber við loptið og líkist hjóli að sjá? J>að kallast Pereshjól og er nyrzt á svœði sýningarinnar. |>að er gjört með svo „skyn-samlegu viti", að sumir ætla smið pess hinn fjölkunnasta mann, likt og var Eyvindar sál-ugi kinnrifa. Hjólið snýst í sífellu, til að sjá í lausu lopti, og er pó að öllu gjört sem hjól; en par sem pér sýnast teunur umhverfis á nöf-inni, pá eru pað stólar eða sæti, og mega 30 menn sitja í hverri tönn eða pverröð nafar-innar. Allt er hjólið úr stáli gjört og snýst fyrir ravafli. Máttu sjá í sjónpipu pinni fjöl-mennið svifa upp og oían hægt og seint með lijólinu; hefir pað sjaldan bjartara útsýni en nú yfir sýningu, borg og vatn. Hve hátt er petta galdrahjól ? J>að er 250 fet að pvermáli, en ekki veit jog hve hár er pallur pess undir. En nú gefst hér íieira að sjá: hér er nú and-spænis hiim fagri Jackson Park með öll sýn-ingarmusterin. Hin mikla bryggja, sem vér stefnura að, er sýningarbryggjau syðri, nálægt 1000 feta löng, en krystalsbygging sú með turn-inum, sem fremst stendur vid bryggjusporð, heitir Kasino og er sönglistar- og skommtihöll. TJpp uf bryggjunni sérðu skinandi hvít aulaa-135

göng, há og í griskum stíl, yíirbyggð, og sigar-kerra ofst á. miðri brún. ‡>að er inngangur meginsýningarinnar. Yil jeg nú pegar, til að átta pig, segja per pað, að hús pau, sraá og stór, er mynda sýningu pessa, munu vera hart-nær 500; eru nyrzt ballir hinna einstöku ríkja, en syðst, og skammt héðan, bak við pær hallir, sem hér blasa við á vinstri hönd, eru lengjur pær hinar miklu, par sem fénaður er sýndur. En vestur úr sýningarsviðinu gengur aldingarð-ur, langur en ekki víður, er heitir Midway Pleasance; tengir hann saman Jackson Park og hinn stóra "Washington Park. Hér er al-menningi skemmt með sjónhverfingum og hrers-konar furðusýningum úr fjarlægustu löndum. Muntu betur kynnast pví siðar, en nú vil jeg benda pér á aðalbyggingarnar, sem blasa við. Muntu fyrst vilja vita, hver sé hin risavaxna bygging til hægri við innganginn. pað er iðn-aðarböllin, hin mesta bygging, sem heimur-inn heíir séð undir paki; mun per pykja hún líkari vera felli eða bjargi en húsi; máttu og vita, að hún pekur yfir meira en 30 dagslátt-ur; kostuðu veggir, grind og pak 1,500,000 d. Hér var haldin sýningar-vígslan; var pá skál-inn tómur og rúraaði hæglega 150,000 manna, er allir máttu sitja, enda voru breið svæði milli bekkja, par sem fjölmennið mátti reika fram og aptur, en útgöngudyr vroru 200. Hefði sá salur vel raátt heita Yalhöll. Hin næsta bygging vinstra raegin við súlnaportið er málm-nemaböllin; par næst og ofar er hin afar-mikla jarðy rkjuhöll, og par næst og efst er bin skrautlega óg mikla m askínuh öll. En hver er hin háa, einstaka höll mcð gull-hvelfingunni beint í raóti að sjá, móti portinu ? Rett spyr pú, og hefði jeg átt að nefna per bana fyrsta. |>ar skín við sólunni aðsetursböll13«

sýningarstjóranna. Er pessi gullna hvoífbygg-ing höfuðprýði sýningarinnar. Húf'aa er 250 feta há, og eru viðtöku- og mälstofur höfðingj-anna efst á hliðsvölum hallarinnar að innan, cn auð er hön í miðju sem kór eða kirkja. Norðan til við hana er liin skrautlega rav-listahöll, og er full af furðuverkum ; norðaa til og bak við hana er fe rju- og v agnah öl 1 in með hið gullna port, sem er hið nierkilegasta listaverk. J>ar norður af er hin goðuni líka g a r ð y r k j u h ö 11 með hiuni fagur-björtu, goysi-viðu páliuhúshvelfingu. Muatu pykjast nær staddur Paradís, pá er pú kemur í pá sali. ‡>á er kvennahöllin, byggð af konum einum, og er hin mesta gersemi, og pá biu forkunnar-fagra listahöll. J>á sérðu afar-skrautlega böll rfett fyrir norðan iðnaðarhöllina sjálfa. ]pað er stj órnarhöli Bandarikjanna og pykir hið mesta meistaraverk. J>á er mikilfeng og einkennileg bygging par norður af, og er pað veiðiskaparhölíin. Eleiri hallir nefni jeg ekki að sinni. Ekki færri en 44 ríki í Norður-Ameriku eiga hér skála, og 22 ríki í Mið- og Suður-Ameriku eiga hér byggingar; allur porri ríkja í öðrum heimsálfum eiga hér á sömu leið, bvert sina höll eða sýningarskála. Sumar pjóðir eiga mörg hús og lystigarða til pess að sýna pjóðinenning sína og í gróðaskyui til að útvega sölumarkað iðnaði sínura og afurðum. Flestar moginbyggingar skulu aptur takast nið-ur og eru pó sumar peirra byggðar úr steini og járni, enda kostaði engiu minna en 2— 300,000 d., en sumar 1 millión eða meira, svo scin iðnaðarhöllin og maskiuuböllin. En seg mer, er sein mer sýnist, liggur dýki eða kvisl inn á sýningarsvæðið og undir brú peirri, er stendur fyrir framan innganginn? Aptur spyr pú rétt. Hér upp undan

